Jón Borgfirdingur.

# RÍMUR

af

# Flóres og Blanzeflúr.

Orðtar af

**Níels Jónssyni**

skálda.

---

Kostnaðarmenn:

**Grímur Laxdal** bókbindari.

**Jón Jónsson** járnsmiður.



---

**Akureyri 1858.**

Í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins,

hjá H. Helgasyni.

# 1. Ríma.

Tvískothend eður frumhend, ferskeytt.

Frá háttum og hernaði Felix konungs. Hann færir drottningu sinni eina franska aðals frú. Nokkuð um vinskap þeirra drottningar; síðan frá fæðingu Flóresar og Blanzeflúr.

---

1. Öll fær valið öldin greið, eðli bundin spöku, þögn og talið lífs á leið, líka blund og vöku.

2. Hófs í skímu sveitin sið, svo fram lokkuð skyldi, hèr af tímans hvert eitt mið, hafa nokkuð vildi.

3. Seldur draumum sorga-frí, sætt eg blundað hefi; horni naumu höldar í, hljóð um stund mèr gefi.

4. Haukur þundar hægt af stað, hjals um reita þræði, skemtun stundar einnar að, ef hann leita næði.

5. Hefur lengi hálfsofið, hendt í rírar bögur, Íslands mengið unað við, æfintýr og sögur.

6. Fyrndar gælur frèttnæmar, frama þó mannvit eigi, er fjarmælum ataðar, ei ná sannleiks vegi.

7. Fyrnast rúna falskra spjöld, fremd útvíðkast letra, komin núna' er upplýst öld, annað tíðkast betra.

8. Sigtýs gríma sómir flóð, samt ei þorna láta, enn má rímur yrkja þjóð, upp á fornan máta.

9. Ei síst þá eg eitt þær finn, óðs af fjórgu kynum; fèll og dável fjölbreytnin, fræða mörgum vinum.

10. Það ei ríngar þystla beð, þótt við meiinn standi, upplýsingar íllgreseð, öllum vel smakkandi.

11. Þannig hagar óðar önn, einhver skáldfífl-anna; manninnn bagar mælskan grönn, mærðar sáldum anna.

12. Margt fær búið mentar tjón, maurnar brýnum gjósti, enginn trúi' eg sopi' úr són, svali mínu brjósti.

13. Vinur! þú, sem valdir mig, versa stríð að heija, þula sú er þènanlig, þèr mun eg víðar segja.

14. Hafnað mörgum hefur þú, hagari kvæða smiðum, áns er björgun nýtri nú, ná á ræðu miðum.

15. Nær flest allra miðlar ment, mörgu fegra versi, og gat þig varla heimska hendt, hraparlegri' enn þessi.

16. Æfintýr af öllu snauðt, á sem mengi lítur, vil eg útskýri verkið dauðt, verð því engu nýtur.

17. Lítt það málar mækja glamm, margra slisa brelldra, launguð stálin dreyra damm, drauga' og risa felldra.

18. Fremur hug á hef eg lagt, hölda' að þýða slekti, andar dug og ásta-makt, elldri tíð sem þekkti.

19. Miklu veit og miður hvað, megna sálir hinna, sem í heitum hjarta-stað, hvössu stáli brynna.

20. Þar að stundum þánkinn spyr, því mèr slapp úr minni, eðalinnd hvert áhángir, alltíð kapphreystinni.

21. Ei það sá jeg upp á víst, á æfintýri þessu, og honum, er frá eg hefja býst, hróðrar ríra messu.

22. Voldug önd í veslum búk. verkaði hèr og þegi, risti höndin darra dúk, dofnaði fjer hans eigi.

23. Míns eg texta lýsing lýk, líkust næfur greii, kortum vexti kápa slík, kýs eg hæfa megi.

24. Minn að óður mæti rírð, mun og bezt til hlýða, hvar sem blóðug herjans dýrð, hefir mest að þýða.

25. Er nú mál til efnisins, óðar strengi svegja; fyrir skál er búið blinds, býsna lengi' að segja.

26. Klerka letur kóngi frá, kristni fjöndskum skýrði, er Felix hèt, en fylkir sá, fróni spönsku stýrði.

27. Dreifða lèt hann sifjar sorg, sínum, gjöflundaður, Alpes- hèt eða Apells-borg, öðlíngs höfuðstaður.

28. Vísir hafði víkíngs sál, vanst opt ránum flíka, undir krafði brand og bál, borgir Spánar ríkja.

29. Heiptug stygðin var hans vit, virðíng þjóðum eyða, og helzta dygðin, hjörs við þyt, hvessíng móðugt reiða.

30. Kannaði græðirs vík og vog, viðsjálastur granna, hann var bæði hraustur, og, herkænastur manna.

31. Slagaði stundum hafleið hann, að herja' á sjóstaðina, njósn ei undan nein svo rann. niflúng sló eins hina.

32. Upptók hann þar fólk og fèð, feiknir hitti' af ráni, vopnum þannig víðka rèð, veldi sitt á Spáni.

33. Og fyrir hlekkjum ánauðar, sem almenn þján má heita, nálega ekkert óhult var, allra Spánar sveita.

34. Gram það eitt í lófum lèk, lán á kristnum vinna; samt honum veitti' ei sigur-þrek, síður slisni hinna.

35. Saga mín sèr hliðrar hjá, hara mergð af slögum, nema' hann sínum eitt sinn á, ofanvorðum dögum.

36. Herþjóð leiddi' á húna ljón, hárs með skari' og eldi, jafnframt eyddi Jakobs frón, jarldóm þar á veldi.

37. (Sögugrefið svo frá tèr, sem af kvæði spretta; en lát mig segja, Lesari! þèr, lítilræði' um þetta.

38. Eg hugleiddi', að efnið skráð, undið vera megi, og buðlúng eyddi brands við gráð, borg, en hèrað eigi.

39. Er þá vel lýst engan veg, ægu torgar ráni; Compostellam Jakobs jeg, játa borg á Spáni.

40. Postula Jakobs borg sú bein, bragnar segja geymi, og nafn af taki', en tèða grein, trúlegt ei þá dreymi.

41. þeirra skýlaus tíma trú, tíðt á sjó og landi, þángað pílagríma grú, ginnt fèkk óþrjótandi.

42. þjóð yfir höfuð þóktist viss, þánka rík af

brotum, Jabobs gröf að kanna' og Krists, kæmi' að líkum notum.

43. Einber hending ekki var, og það fjörvast nefni, sem á stendur sögunnar. seinna gjörvalt efni).

44. Fleira' um syngja fylkir skal, er sjón eitt kunni svala, reiksaði kríngum ræntan val, og rústir brunnar sala.

45. Þrjátíu rasta stóran stað, stillir gjöreytt hafði, út svo hastan heimbúnað, herleg förin krafði.

46. Höglar-bandi herinn á, hans fór knöru búa, fyrir sandi' og ferma þá, fólks- og vöru-grúa.

47. Hvíldi branda herþjóð slíng, hraust var drótt í önnum, nokkrir landið kanna' um kríng, að klekkja' á flóttamönnum.

48. Sögunni víst eg sjá af nem, svæst þó kífið væri, þengil fýsti frá sèr, sem færst með lífi bæri.

49. Á þeim tíma grilltu gjör, girðtir rimmu plógi, pílagríma franskra för, fram úr dymmum skógi.

50. Eyðilagðan ætla stað, ullar kanna geira, dróttin sagði þengli það, þyrst sem hann í dreyra.

51. Hann vill enda hvergi skjálft, hafna branda messu, riddara sendi hundrað hálft, hyski' að granda þessu.

52. Svo var háttað sagðra för, að sjúkdóm

stríðan fengu, og höfðu' ei átt nein hægðar kjör, heiman síðan gengu.

53. Áður farar-foringinn, færði' óhágur hildi, kappi af París kóngborinn, kvinna' ag mágur fylgdi.

54. Hann var dáinn, hjörðu þaug, hitt sóttlera þjakað, djúpa sá ei dreyralaug, dult er sèr gat bakað.

55. Gètur ei, nein að gengi þar, gargans bóla skorðin, nema sú ein, er nauðir bar, nýlega ólètt vorðin.

56. Faðir tíginn faldsólar, felldi' ei móð með happi, ellihníginn orðinn var, áður góður kappi.

57. Vopnum sínum var hann í, en varla nokkur hinna, ró fór dvína, neyð kom ný, nálgaðist flokkur slinna.

58. Hlerað stríð ei hafði þjóð, háskann ekki dreymdi, þar til síðast banablóð, bráðt um rekka streymdi.

59. Lítt eður eigi varð af vörn, vigrar nægja morði, fèllu vegin Frakklands börn, fljóð á slagið horfði.

60. Hrosshársgrana faðir fljóðs, funa bálast lætur, lengstum vanur baði blóðs, byrjaði stála þrætur.

61. Seggir gánga sèr á hönd, sveigir skjóma bjóða, vildu fánga' og ræna rönd, reinir óma glóða.

62. Kèmpu fjör og krapta þá, kappið endurhresti, búk svo hjör hans enginn á, eða hendur festi.

63. Hamaðist lengi' og hrottann skók, hrönnum kvistar bragna, nógar mengi nauðir jók, neytti mistar-gagna.

64. Vigra stríðan vakti klið, vóg á báðar hendur, hærða síðast hraustmennið, hneig á láð örendur.

65. Síðar greina seimþöll vann, sollin tára flæði. líf að seinast lèti hann, lítið sár, af mæði.

66. Öllum saman um kom þar, ítum þeim er stóðu: að færa gram þá fölleit var, flæðar eima tróðu.

67. Valinn ræntu, víf svo með, vendtu skjótt að knörum, heldur vænt um herfáng sjeð, hilmir þókti snörum.

68. Hèr er það af hending skèð, „helzt vèr áttum sinna" — lofðúng kvað, og líta rèð, lilju brátt á tvinna. —

69. „Drottníng tígin, dagsatt er, dróa um kristna beiddi, en orði því úr minni mèr, meinleg slisnin eyddi".

70. „El eg þann grun: hún aldrei fær, ambátt þokkalegri, hèr við mun, svo happ af grær, hagur okkar fegri".

71. „Borin mun síst í búra kráin, bráins stèttu

vörin, ætlum víst, nè ættum smám, er sú rètt tilkjörin".

72. „Ambátt vor þá aðals víf, er frá kristnum löndum, sjest til spor, hvert sóktum kíf, sigurvisnum höndum".

73. Hver útgrundar harma kíf, hvað' þúngt svanninn bæri, fyrr er mundi' að láta líf, ljúft, enn þannig færi.

74. Leysa gnoðir lofðúng bað, loks er sprundið huggar, hefjast voðir húnum að, hefring undir ruggar.

75. Ólgan móðg á ýmsa hlið, ilgjum stafna bylti, sem alblóðgum sjóla við, systur drafnar hryllti.

76. Freyddi' um stafna bifið blátt, byljir voðir skóku, löðri drafnar hvirflar hátt, hafleið gnoðir tóku.

77. Tognuðu reiðar blakka bifs, beint um saltar drafnir, ösluðu skeiðar dýngjur drifs, döglíngs allt á hafnir.

78. Var að spora' á vísis svip, við þær spár hann undi, hans ei þora' að hindra skip. hler nè kári mundi.

79 Ærusoltinn lofðúng lands, láns síns notum eirði, eins og stolti hæfði hans, heim á slotið keyrði.

80. Marar sunnu' og meiðmum af, metti þrekna

granna; drottníngunni glaður gaf, greiðt hinn tekna svanna.

81. Vífi drottníng vann ei grönd, varma blíðu nærði, gèkk með lotníng henni' á hönd, hin er kvíði særði.

82. Við svo megnar verða því, vizku svinnri hlíði, sást í gègnum sorga ský, svannans innri prýði.

83. Svo kom skjótt, að sjóla frú, — sá það flesta mengið — hafa þóktist herfángs nú, hlutann bezta fengið.

84. Hver annari móður mál — máskè fyrstar kvenna — á láði þar með lipra sál, lauka ristir kenna.

85. Bauð hvað kunni fylkirs-frú, fljóðs er ama hnekkti, því meir unni svanna sú, sem hana framar þekkti.

86. Gèkk til hjarta gèfni seims, grams hve beðja veitti, stóran part af hamíngju heims, hana' og gleðja þreytti.

87. Þegar hún mæran þernu-her, þág og skreytt herbergi, þvílík æra sá hún sèr, sannlega veittist hvergi.

88. Inna þengils um það sá — yfir þeim lysti rómi — skoraði enginn skorð gulls á, að skúfa kristinndómi.

89. Frelsi þetta frómlynd snót, flestu meira

virðti, en bjóst við rètt að boð þau ljót, bráðum heyra þyrfti.

90. Ei þó dyldi' hún atlot hlý, amastundum barmi, drottníng skildi skorð gulls í, skýldi leyndum harmi.

91. Hún því gætti' og hnýstist að, háttum vífsins svinna, sem hún ætti sjálfri það, sèr til lífs að vinna.

92. Morgun hvern fèkk mengi spurt, mens um talda hildi, sínum þernum bendti' hún burt, bæn þegar halda vildi.

93. Eitt sinn var, sem optar það, er þar frá að segja, sínum þar í stúrði stað, stjörnu láar eyja.

94. Skorð gulls eina sköruglig, skykkju hafði' á búki, meður hreinum miðja sig, menþöll vafði dúki.

95. Himins til mænir, kraup á knèð, að kristins dæmi fínu, fagra bæn þá flytja rèð, fyrir afkvæmi sínu.

96. Talaði fljóðið, til sem fann, trega' og harma sinna, allt hvað móður-ástin kann, upp sem varmast finna.

97. Henni málast huggun viss, himininn ráð til sæi: að þessi sál í kirkju Krists, kæmist áður dæi.

98. Ekki sá hún ángurs fyr, und sèr blóðug grèri; svefnhúss þá við dróşar dyr, drottníng stóð á hleri.

99. Tölu sinni svo fljótt brá, sjafnar slóðin trega, veik hún inn og vífið, á-vítaði móðurlega.

100. Þá hún spjalla þannig rèð: „þèr svo bæti pínu, hygg eg varla verði sjeð, við mótlæti þínu“.

101. „Mèr er nú að miklu bert, mest þitt kvalar-efni. sjer eg þú víst þúnguð ert, þótt án kala nefni“.

102. „Slíkt þú greindir oss ei á, augnabliki þægu, illa leyndir þessu þá, þèr svo mikilvægu“.

103. „Lítt því farnast mun það mèr, mein þín hreint að græða, hèðan af barn þitt ófært er, upp hèr leynt að fæða“.

104. „Mjög hvað tvistri þèr var þægt, það svo líka mátti, mèr í fyrstu helzt þó hægt“. Hin og slíku játti.

105. Baugþöll fór að barma sèr, beisk því meinin svíða. Drottníng sór: „Ei dapri þèr, dugir neinu' að kvíða“.

106. „Seig ef mátt, og sorg ei, drós! svæfir túngu þína: hve nær áttu heimsins ljós, huldum únga' að sýna“?

107. „Ef ei tálma heilsu hags“ — hin kvað — „slisnin veldur, það til Pálma- drottins -dags, dregst, er kristnin heldur“.

108. Svarar daga sunda bil, södd af næríng dáða, að mikils draga mundi til, myrkt þó væri' að ráða.

109. Við hún bætti: Víst eg finn, vor er sama

stundin". Svarsins gætti svanni hinn, samt kvað ama bundinn:

110. „Nægan efa nú eg ber, náms og finn í hreysi, hvort fyrirgèfið gètið mèr, galið sinnuleysi"?

111. „Duga mun síst að deila' um það — drottníng náði skrafa — fyrir víst, því finn eg að. forlög ráðið hafa".

112. „Leggja þèr skal lið ótregt, linda heiðin trúa! því sem mèr er mögulegt, mest til greiða snúa".

113. Felldi hin þá fegins tár, fljóð sig hresta metur, artin vina vífum klár, varð sem bezt hún gètur.

114. Loks er haldið launkristin, lofðúngs yrði kvinna, þó bugaði vald og baugþöll svinn, breyta þyrði minna.

115. Snóta ræðum fleirum frá, í fræði skráð er eigi; tíðin læðist til að ná, tèðum áður degi.

116. Heima stár, að hann var sá, halir bæði' og drósir, geymdar ári fyrra frá, festu klæðin rósir.

117. þessi bragna venja viss, virðtist svara standi, sumri' að fagna svoleiðis, sífeldt þar í landi.

118. Ólu báðar bauga gnár, börn á greindum degi, sínar náðu sanna spár, samt í leyndum eigi.

119. Að þeim starfar kvennlegt kyn, kvellíng

þegar mæddi, drottníng arfa', en dóttur hin, dæilega fæddi.

120. Þág nú stórhóf þegna hvur, þjóð ei stúr bar ærinn, nefndist Flóres buðlúngs bur, Blanzeflúr hèt mærin.

121. Þau í prýði þóktu jöfn, því og strax vel gègna, að blómstur þýði beggja nöfn, burðar dagsins vegna.

122. Gladdist drótt og mildíng með, margir tónar klíngja, hafa þóktist þengill sjeð, þar sinn trón-erfíngja.

123. Hvorig skaða hríngþöll beið, heilsan dáð-um gagnar; ekki það á laungu leið, lýðurinn báðum fagnar,

124. Þegar gjóstur flagðs mèr fraus, fljóða prýði viður, eg við fóstur lagðist laus, ljóða smíð-is niður.

---

## 2. Ríma.

Ferstiklað ferskeytt.

(Opt órímilega kölluð Hríngbenda ag flelra).

Frá barnæsku og ástum Flóresar og Blanzeflúr. Hann á burtreið við einn af riddurum föður síns. Þau eru að skilin. Tilræði móðursystur konúngssonar, að láta hann gleyma Blanzeflúr.

---

1. Ljómi dagur lista kyns, lifni bragar ræða; glansi hagur gleði skins, glymji slagur kvæða.
2. Birtast marir bríma hvels, blysum skarar drótta, snót naglþvara' og hlýra hels, heyri' eg svarinn flótta.
3. Bjarminn strjálast brár um kríng, byrinn fálu nærir, tendrar sálar tilfinníng, túngu þjála hrærir.
4. Draumlaus hef' eg dormað opt, dúr þann efa megi, hvort hafi gefið ljós nè lopt, lúnu sefa greii.
5. Nú hef eg þó svo notið draums, nægði' hann ólund varna, minn og bjó til greina glaums, gáfu sljófan hjarna.
6. Þundar svanur þókti mèr, þó að vana fornum, loptuggana liðka' á sèr, og leita' að grana hornum.
7. Fyrir daginn fyrst af því, flaut ánægja' að drætti, honum lagin hamför í, herra Bragi mætti.
8. Felmt óblíðan fyrst hann jók, frekt með kvíða bragði, að mèr síða skèggið skók, skáldið fríða' og sagði:
9. „Suttúngs mjaðar helgast hnoss, hyggst þú, maður! finna, samt mun það fyrir utan oss, eingisstaðar vinna".
10. „Þú lætst eiga fjalars fley, freys að veigum hreinum, happa feigur hyggur ei; hnoðar deig af steinum".
11. „Rèttast væri raunin það, reyndist fær að sýna, fánýt æra finnst oss að, fordild næra þína".
12. „Hvort mèr troða tekst í þig, tári boðnar salla, og hèr til stoða herða mig, hef' eg skoðað varla".
13. „En þar tjáist vinur vor, verður á það reyna, halur sá þú hvattir þor, hróðrar skrá að beina".
14. „Gjöri vald og vilji minn, versa galdur

fríðan, þèr að halda' í þetta sinn, það spyrst aldrei síðan".

15. „Boðnar vætu', er brögnum lèr, bragar mætin fínu, að þú kætist opt, ei ber, ofdramblæti þínu".

Mauk af þystlum þú
þurrum byrla,
Sveinn! suttúngs mjöð
enn sannhelgo
nè fur utan oss
abla kunna
eign vor einna
frá öndverðu.
Blindur er þú mjök,
er bygðan vilt
móðró moðsognis
af meltágum,
slíkt er bjaðar-bein
í brauð af skepja,
rètt væri raun þèr
ráðning veitti.
Vatvís þinni
við sá bergur,
líka veg sinn man
lítt að stærra,
blindt er oss og hitt
hvort boðnar hreppti
líf í leirhnaus einn
láti rjúka.

Þó ber þörf til nú
þess að freista,
sá er vinur vor,
er vildir þú
bragsmíð byrjaðri
heint að hafa.
Drakk hann día-veig
drengilega.
Skuli nú svo skè,
at í skvaldri þínu
vilji vor
valdi studdur
skáldæð skammfría
skapta fái,
ei muno þat optar
aldir fregna.
Hæfir at hárs-veig
helgidóma
optar ofdramb þitt
endurnæri,
er á skálum skín
fur skáldmæríngum,
tryggir þánka tign
ok túngu krapta".

16. Hvarf nú óðar-höfðínginn, hitt má þjóð og frètta, meistari ljóða minn heppinn, mælti' í hróðri þetta.

17. Öld mun naumast annt um það, óðs við

glauminn tjáða, lund er taumlaus birta bað, bogna drauminn ráða.

18. Nýrri hèr var hróðrar dáð, heitið mèr í blundi, strax þó er til enda kljáð, endt við kverjið mundi.

19. Óvild Braga' eg ílla skil, abl muni baga sálar, en það vill draga þánkann til, þess, er sagan málar.

20. Sveinn og mær, er sáust þar, sýnist læra mega, að leikspil væru lukkunnar, lund er færir deiga.

21. Hamíngjan glóða lægirs lín, líka þjóðkóngs arfa, hæpið stóð sem hverful mín, heill til óðar starfa.

22. Vel hafa forlög framtíðar, fyrir því sporin jafnað, ólíkt borin áþekkt var, æsku vorið dafnað.

23. Æit og hreinum hyggjum lá, hèr við greina dörinn, líkara' að reyna, lángt enn sjá, láns og meina kjörin.

24. Ríkur, snauður, þengill, þý, þola nauð ótalda, engum bauð hún frá sèr frí, faðm í dauðans kalda.

25. Úngur hèr við hyggjur frjáls, held eg sèr það enginn, hvort hann er til alls eða hálfs, inn í veröld genginn.

26. Þó kènnum bæði misjafnt meins, og misjafnt gæða njótum, til að mæðast eitthvað, eins, allir fæðast hljótum.

27. Lítið grætir lukku mann, lán, sem mætast unni, en eitt, sem kætir ángráðann, eymd hans bæta kunni.

28. Hans sem skèra harmar því, hjartað er svo nýtið, lát sælkèrans augum í, á því bera lítið.

29. Hann ei þekkir hverju sá, hnuggni rekk-

ur fagnar, en þess fèkk, ei missa má, er minna' enn ekkert gagnar.

30. Gleðinnar ylur breytir brún, böl að hylja' og þvínga, síbreytt spil er sorg, og hún, sál er tilfinnínga.

31. Sál þin veit af aðal-ósk. aldrei sleit þeim vana, lukkan breytir þó svo þrjózk, þèr að neita' um hana.

32. Er svo varið öndu manns, ei það par sem bæti, slíkt þá sparast höndum hans, hjartað snarar kæti.

33. Láns þíns reit svo lukkan því, liljum skreytir fegri, að hinu leyti hraparðu' í, hörmúng eiturlegri.

34. Sagan máttug sýnist, er, segjast átti þegar, þessa háttu að mála mèr, miklu náttúrlegar.

35. Grynnti lóðins gríma haf, gáfu ljóð þar staðar, brúðir stóðu barnsæng af, blíðs til þjóðfagnaðar.

36. Franskri lotning refla rún, ræðt er gotnar bæri, er eykst, en þrotnar ei, sem hún, önnur drottníng væri.

37. Óheyrð kjör sem útlend, þar, átti vörin tvinna, dáðum fjörug drottníngar, dýrsta gjör hirðkvinna.

38. Opt því skèði, víñð víst, var með gèði hressu, drottníng rèð, en döglíng síst, drambi freðinn, þessu.

39. Húss um sakir hirðti' ei gróm, hilmir svakalegi, yfir þeim vakir vesældóm, víkíngs makinn þegi.

40. Drottníng vildi gæðsku-gjörn, glæsti mildi risna, að fóstra skyldi bæði börn, bauga hildur kristna.

41. Öðlíng seinast á það dróst, ekkert meinar vega; en hún sveini bjóði brjóst, bannaði greinilega.

42. Happa visna hèldt það fólk, heldur slisni' og voða, þeirrar kristnu móður-mjólk, enn móð eða risnu stoða.

43. þessa vör ei verða lèzt, víf í svörum netta, innlend kjörin önnur sjest, eitt að gjöra þetta.

44. Elnaði fóstur-ástin samt, auðs í brjósti lofnar, sem varð ljóst og sást um skammt, sèrhver þjóstur dofnar.

45. Varla mundi fara fjær, fannst sèr sprundi hjarta, baugs hafa lundur líkt og mær, legið undir hjarta.

46. Börnin þróast fríð og fjörg, frændsemd þó ei svari, suma sló, að sæust mörg, systkyn ólíkari.

47. Auðar-gnár í örmum þaug, engu fári kvíða; æskan klára fram svo flaug; fjögur árin líða.

48. Slík þar víða vart að sjá, var sem lýðir fregna, hálffulltíða þóktu þá, þroska' og prýði vegna.

49. Kridduð dáðum lítið leynd, lætur ráða

saga, að fannst hjá báðum frábær greind, fljótt um tjáða daga.

50. Við það lengist versa klíð, virðtist mengi' og sjóla, hentug fengin fyrsta tíð, Flóres gengi' í skóla.

51. Hilmir taldi hentugt ráð, hèt til Gjaldom staður, sveinn þar haldi ból í bráð, bjó hèr aldinn maður.

52. Gilfa þènti, Geides hèt, göfgum kènnt fær sveinum, enga ment óleikna lèt, lítt hvað hent var neinum.

53. Kóngsson fèkk þann kvitt af drótt, kvisið ekki þagði, úngur rekkur fyrir fljótt, föður sinn gèkk og sagði:

54. „Eg nú finn og allvel skil, yðar sinni' og vilja, fóstru minni frama til, frá mig svinnri skilja“.

55. „Ei jeg hèr um klaga kann, kunnstum ber að sinna; grunur tèr: hinn gamla mann, gott sè mèr að finna“.

56. „En hvar sem gjerist hjartað auðt, hvar að berast tregar, næmi mèr og minni dauðt, mundi vera þegar“.

57. „Fá mun stúrið hjartað hèr, hrygðar dúrinn fángað, en Blanzeflúr ef fylgir mèr, fer og ólúrinn þángað“.

58. „Gripið fær mig grunur sá, gjöri það ær-

inn tregi, slitin mær ef mèr er frá, mikið læri' eg eigi“.

59. „Það líðst eigi — þengill tèr — þèr í vegi standi, návist meyar neitum vèr, neitt að hnegist grandi“.

60. Var svo bráðum undið að, eins og tjáð í kvæði, að þau skráðum skjótt í stað, skólann þáðu bæði.

61 Bauð svo mildíng meistarinn, menta skyldi bæði, meðan hildur seima svinn, sömu skildi fræði.

62. Viður stála' og veiga rist, varmar sálir nærðu, latínskt mál hèr mennta fyrst, mælt óbrjálað lærðu.

63. Hjarna-leynar hver óþjál, hjá þeim reyna fræði; eiga hreina sýndust sál, saman eina bæði.

64. Drengur svanna duldi' ei neins, drósin hann því síður, báðum bannar ást það eins; æskan þannig líður.

65. Liljur tvær á lágum hól, lífs svo nærast bjarma, er sól við hlær, en hver þó skjól, hinni fær og varma.

66. Sveinninn bjarti' og menþöll mjó, minnið skarti reira, skráðu margt, en þenktu þó, þriðja parti meira.

67. Meður tíð varð mennt þeim enn meiri' og prýðilegri; lètu bíða lærðir menn, letra smíðar fegri.

68. Sýnilegt varð þá og þá, þreytti frekt að vana, elskan mektug á þau fá, áður enn þekktu hana,

69. Varð samlyndið algjörð ást, er rígbindur hjörtu, sem ei hindrast sundur nást, södd af yndi björtu.

70. Blíðra para bjó þar hjá, beggja svarinn vilji, allt að varast, er þeir sjá, orsakar þau skilji.

71. Frá sjer drifið fannst þá lán, færst er yfir bætti, hins og lifa hvorugt án, hót svo þrifum sætti.

72. Barna líki bjóst við þá, blíð-von slíkri mettist, eisu díkja' að ekta gná, að þegar ríki settist.

73. Ef þau tjá það lands ei lýð, lèt hann þá sig dreyma, að mundi' hann fá í millitíð, meyuna hjá sèr geyma.

74. Gilfi þver og þjóstugur, þenkti hèr of síð um, leigði her og leiðángur lángann rèri tíðum.

75. Eitt vill hlera tyggi, tíð, til þegar vera hugði: Sveinn hvort bera brands í hríð, benja skèra dugði?

76. Fimmtán ára Flóres þar, fregn af klára hafði, hans um brár sig skap út skar, skollvalds már er krafði.

77. Drengur hlýnað blóðið bað, burtstaung sína reyndi, og fáum línum fyrir það, föður sínum beindi.

78. Kvaðst hèr blunda, kraptar veiks, kènna' enn stundum heima, sig til unda linna leiks, ljósara mundi dreyma.

79. þengill gildi' í þessu sig, þekkti, vildi' hann senda, dreng er þyldi' á styrjar stig, staung í skildi benda.

80. Jöfra líki', og var þess von, vart hvers ýkist mildi, vegna slíkra svara, son, sinn auðmýkja vildi.

81. Kóngur lendan kappa þann, kèmpu sendi' af vali, er frægri hendi felli hann, frækni kènndur Ali.

82. Kappinn svinni kræfur var, kóngs son finnur milda, þessi stinna burtstaung bar, burtreiðin skal gilda.

83 Hnefar Flóres hertý gljá, huguriun stór nam kætast, ramir jórar rennast á, randa þórar mætast.

84. Lagið misti niflúngs niðs, nadda kvist hann felldi, stoltur mistar stafur sviðs, steig um rist á veldi.

85. Spyr nú giptu hafinn hann — hinum það skript var meiri — ef við sig lypta vill eða kann, vopna skiptum fleiri?

86. Unda linna leiða' úr ham, leizt — kvað hinn — sèr eigi, en mundi finna mega gram, málslokin að segi.

87. Flóres sagði' hann sjálfráðan, sárs að

flagði gildu; hinn við þagði; þeir síðan, þegar að bragði skildu.

87. Furða mundi lofðúng lands, lægíng þundar fleina; hlinir undan beiddust brands, buðlúngs kund við reyna.

88. Falinn skyrtu Sköglar líns, skjöldúng firtur svíma, hreysti virðti sonar síns; svo var kyrt um tíma.

89. Unni Blanzeflúr sem fyr, fagur kransa viður, svifaði hans þá hveðru byr, heldur brands á hviður.

90. Hilmir knár úr herför kvam, hèr um ári síðar, og þá gár fyrir eyru gram, annað enn dára smíðar.

91. Flóres brást nú færi leynt, flestum skárst við sprundið; þókti sjást, að hefði' hann hreint, heilar ástir bundið.

92. Gram alræmi virða vengs, verður slæmur tregi, aðra' að sæma drós við drengs, dag á kæmi' aldregi.

93. Stoltur hari staðlaus varð, stygðist þar við nærsta; rósemdar gaf ríngan arð, Rínar skar hans glæsta.

94. Drottníng við í tómi tèr, týnir griða reiður: „Afskorið er, vitum vèr, vorn í friði heiður.

95. „Mínkun stór á móti von — mildíng sór alkènnda — úngan Flóros okkar son, ílla fór að henda“.

96. „Frama týnir fordæðan, fona Rínar tveggja, ambátt sína' að ætlar hann, á ektadýnu leggja“.

97. „Makleg skrift er hrínga hnoss, hún skuli giptast bana, leik svo skipta lystir oss, lífinu svipta hana“.

98. „Feta spor það, frjálsan mann, fæst á-skorað þegi, enn mælast þora þar undan, þræl-ar vorir eigi“.

99. „Ef erfínginn, sem ætt vor hin undir sinn á beiður, giptist inn í kristið kyn, — kóng-ur innir reiður„. —

100. „Virðíng ríkis, velferð lands, veltur líka' á þræði, fyrir og víkur heimsku hans; hörð eru slík vandræði“.

101. Drottníng þengil þrúnginn sèr, þar var engin náðin, þagði lengi, loksins tèr: „liprari fengjust ráðin“.

102, „Mun svívirðíng megn og stíf, í minnum hirðast alda. sú: að myrða saklaust víf. en sæld eða kyrð ei valda“.

103. „Vil eg til sjá, að vina mín, víki frá sèr sprundum, líkt og þjáist lemstruð pín, og liggi' í dái stundum“.

104. „Merki drótt, að menja gná. mínka þrótt sèr finni, í ægri sótt og óski þá. eptir dóttur sinni“.

105. „Grátfegin sú gabb ei slær, gegndi um sinn þeim störfum. undan svinn ei mælist mær, móður sinnar þörfum“.

106. „Geides er þá gullvægt ráð, gjöri sèr upp veiki, og sendi hèr heim svein í bráð, saman þá ber um leiki".

107. „Svili þinn og systir mín, — svo má vinna spilið — heiman ginni hal til sín, hvað eg finn auðskilið".

108. „Hana' mun dreyma hentug ráð, hún er ei þeim í svíma, tærir seima linda láð, láta gleyma' í tíma.

109. „Eða mundi' ei mót til að, mær og þundi skíða, fáist sundur fullstíað, fram þegar stundir líða".

110. Ræsir glaður raun á lèt, ráð stofnað sig hressi, láns óstaður Lígor hèt, lendur maður þessi.

111. Landeign frá þar lángt úr grend, Lígor á og situr, baugs er gná Sigbilla kènd, bragða kná og vitur.

112. Svo var allt á götu gjört, gèkk óhallt að bragði, ráðið snjallt, er baugsól björt, býsna kaldt á lagði.

113. Gramur að þyldi þessi svör, þorns og hildur netta, meyar skyldi frelsa fjör, forlög vildu þetta.

114. Leika tekst nú lista spil, lýgin vegst mót sanni, Geides leggst, enn grams son til, gilfa hrekst og svanni.

115. Heim kom fljóð með niflúngs nið, nett

og rjóð um kinnar; hún var óðar herbergið, hneppt í móður sinnar.

116. Um hið skeða menja mist, móðurin téða fræddi, og henni réð að heita' á Krist, hvað sem geðið mæddi.

117. Við það eina fljóð sér fann, fyrsta mein að létta, hnuggin seinast heita vann, hún að reyna þetta.

118. Féllu viðtum fylkis nið, forlög styrðt að vonum; og nú birt var eyrindið, yndi firtum honum.

119. Gegndi barn: „Svo hopa' á snið, hamfugjan mun vilja, meistarann og meyu við, megi' eg þannig skilja“.

120. Fann til svara fylkir þá: „Frek eru þar til efni. nú ei fara með þér má, móðu skara gefni“.

121. „Hertekin af háska lífs, barðt um sinn eg kenni, meistara þinn og móður vífs, mær þarf sinna henni“.

122. „Mánuð ber því menja gná, miðjan hér út enda, hvað sem skér um hina þá, hana þér skal senda“.

123. það atvik þótt vísis nið, væri mikill tregi, gremju bikað gat þó við, því grunaði svikin eigi.

124 Síðan skildi svo með þeim: syni gildum

hara, lèðist fylgd til Lígors heim, loðríngs vildar skara.

125. Veizlu, fljót á sómasið, sveigir spjóta' og kvendi, gjörðu móti gilfa nið, girðtum klóta vendi.

126. Drottníng systur sinni reit, söguna stytztu tjáði. Bauga rist á brèfið leit, brands og kvist að gáði.

127. Las hún hrygð í björtum brám, blinds er yggð hans lífi, hèldt það stygðar klára' af kám, kvennleg dygði prýði.

128. Leiddi' í kofa línþöll svein, lundar dofan grenna, silkjum vofin sem var ein, setustofa kvenna.

129. Bar fram gylltan bikar víns, beim svo villti fríðan, húsið fyllti liljum líns, loga gylltum síðan.

130. Brast ei það, er sjónir sveins, samverkaði' að metta. Spratt upp hraður spillir fleins, spurði: „Hvað á þetta?

131. „Myndir sá eg málaðar; margur á þeim tekur, enn það ei tjáir þenkja' um par, þánkann frá sèr rekur“.

132. „Þótt óyndis meiði mein, mitt skaplyndi þvíngað, var ei hinda veiði nein, vort eyrindi híngað“.

133. Drengs algreiður beslu byr, bikarinn heið-

urs smáði, halurinn reiður hljóp á dyr, hvorgi bleyðast náði".

134. (Mátti blygðast vífsins vit, venzlað lygðar slekti, góðs er Frygðar fjaðra þyt, nè fróma trygð ei þekkti).

135. Örðug lundin óþægðar, elna mundi sveini, fór hann grunda fiskur hvar, fólst nú undir steini.

136. Bróðir dauða Blanzeflúr, býtir auðar skeinkti, er vakan hrauð hans örmum úr, ægri nauð svo kreinkti.

137. Verðugt fann þó sjóla son, sèr nú þannig færist, þar til svanna væri von, vel að hann afbærist.

138. þannig læsti þagnar borg, þau hin næstu dægur, að hans færstir sáu sorg, samt var hærst óþægur.

139. Sorgar gælur svars um storð, suðaði kælu strengur; drótt það fælir: óstutt orð, aldrei mælir drengur.

140. Nadda kvistur neinn við mann, neitt hefur lyst að spjalla, móðursystur sína hann, sjá má bistur varla.

141. Að því, hvar um ól eg raus, yggs varð skara gauti, fángi var hann lukkulaus, lukkunnar í skauti.

142. Styrðu kvæða bjóður ber, byrði fræða móður, yrði skræða hróðurs hèr, hirði klæða rjóður.

## 3. Ríma.

Oddhend þrístikla ferskeytt.

Flóres verður her að sorg sinni. Faðir hans vill lífláta Blanzeflúr í annað sinn. Móðir hans getur tálmað því með að stýnga upp á, að selja hana mannsali. Hún verður seld og kèmur til Asíu, en Flóres heim.

---

1. þriðju ljóð úr þagnar sjóð, þarf nú bjóða meingi, verma blóð og hrekja hnjóð, herða' á óðar strengi.
2. Vínið óms í veum róms, versa hljóms til dugi, auladóms ei gæti gróms, gínars lóms á flugi.
3. Braga spá ef bregðast á, blindt svo dá eg finni, um að sjá mig eg fer þá, annað fá liðsinni.
4. Ásgarðs fljóð ef ærnan hnjóð, ei mèr bjóða vildu, fóstur ljóða að mýkja móð, myndast fróðleg skyldu.
5. Mikið var eg meinlaus þar meðan ei bar til þarfa, eða nam fara' að efna par, áns til knarar starfa.
6. Vafið þó skarti víf sè margt, í Valhöll snart eg aungva, fer enn vart, og fipla' ei djarft, fljóðin artug saungva.
7. því ef bið eg þær um lið, þarf ei griða leita, úfinn sviðar vondskast við, vill ei friði heita.
8. þó honum sè gramt: en traudt mèr tamt, til og ramt að freista, hèðan um skaumt eg hlýt nú samt, hèr á framt að treysta.
9. Fyrst við örfast fýsnin djörf, fegurð sörfa lofna, krefst og þörf við stefja störf, styrktar fjörvi dofna.

10. Útlegð stríð frá Ása lýð, ár og síð er betri, enn Dísa blíðuþrot óþýð, þessum líða' á vetri.

11. Af því sýngi' eg Oddhendíng, ef eg svo slíngur færi, falskan kríngum forvitríng, fremd óríng það væri.

12. Tekið af mèr það unnið er, aldrei Herjann gètur, nema' hann fer, þá svikin sjer, sitt að verja betur.

13. Varúð ljá í umsjón á, yndis gljáum svanna, er honum þá ei einum lá, ef skal tjá hið sanna.

14. Líkt og hann því margur mann, merkjast kann af undinn. Vilja banna brestinn þann, að blekkja' í ranni sprundin.

15. Slíkt ei má þeim mikið lá, mær, sem á að hlýða, virðíng á og velferð þá, vífið sjá þeir líða.

16. En sjaldnar skèr svo bágt við ber, beimunm lèr það ama, drambsöm þverúð heldur enn hver, hlýtur að vera sama.

17. Hleypidóma' og hófmóðs gróm, helzt það róma kunnum, er þá sóma saknan tóm, svarin af skjóma runnum.

18. Nokkuð þetta' í neinni stètt, naumast frètt mun vera, að ásta flèttað samband sett, sýnist rètt að bera.

19. Fregnum mann sem auðgrund ann, ef eyrað kann að gleipa, fólk vill sanna, hún eða hann, hinu sè bann og sneypa.

20. Efnið hèr, sem eptir fer, ýmsum ver þótt líki, leyfir mèr mitt ljóðakver, lítt að hèr á víki.

21. Hyllir sniðugt sveit þann sið, sú til hliðar stendur, fá honum liðugt framhaldið, fleiri' enn viðkomendur.

22. En ást og trygð úr andar bygð, ei hvar brigð rèð níða. valda hrygð þeir hrekkja sigð, hana' í stygð af sníða.

23. Og þau strik með orku' og svik, ástum kvikum svipta, hvors ei stikar hvarma blik, hvað fllt mikið stipta.

24. Felix bari frambrunar, Flóres þar með græta, en vorkun bar, því virðíngar, vísir þar nam gæta.

25. Vífs ættlið að var kristið, valdi' ei miður sjóni, en þjóðhatrið gat þeingils nið, þar skilið frá tróni.

26. Ást einstaka þolir þjak, þeir sem vaka fregna, mörgum bakast mein og blak, minna' orsaka vegna.

27. En heróps grana hermt eg man, hárs með svan óþjálfum, drambs það flan og vægðarvan, vann þó bana sjálfum.

28. Hans bar kundur hættu stund, brjúfa lund og mædda, fyrir sunda sunnuhrund, sóma mundi gædda.

29. Minna skal ei meya val, metast hal í trygðum, hróðrar skjal það hvergi fal, hún var alin dygðum.

30. Sjóli fann hvert sigurinn rann, sorgin hann þá kafði, en launstig þann, þá verkið vann, varla kannað hafði.

31. Fordild svört! þér fjandinn ört, fær opt gjört af sýru. En tignar örtuð trygðin björt! tem öll hjörtun dýru.

32. Feil ei slær sá töm er tær, trygðin æru mesta, dygð stár nær, enn hinn sem hlær, og hefir jafnkæra flesta.

33. O, þú dygð! sem elur trygð, eyðir stygð og pínum, Vegtams ygð, er veikir hrygð, vísa' að bygðum þínum.

34. Auðna skær! hvort yndi ljær, eða slær með kvíða, vert oss nær, svo verði bær, vor geðsærfing stríða.

35. Hjörs fyrir týr að hinu snýr, hárs ódýra gildi, æfintýr er skilja skír, skèrðir ýra vildi.

36. Geirs ef bör og gullhlads vör, gæta'g hvorugt tjáðum, þau eru pör, sem þekkja gjör, þróaði fjör í dáðum.

37. Fèll afplánað ljóða lán, lá und þjáníng muna, hálfan mánuð yndis án, yggur ránar funa.

38. Leið það hjá, ei gulls kom gná, geira brá nú þundi, veit hann þá, að þaðan í frá, þarf ei gá að sprundi.

39. Nú varð fyrst hans linuð lyst, að leyna tvistu gèði, hamíngjan bist þá rella rist, rekk almista tèði.

40. Vill helzt bera' að vörum sèr, vigra grèr óteitur, hvað sem fèrið hreint afskèr, hefði það verið eitur.

41. Hèr við undi' ei Lígors lund, líka grundar svanninn, að tyggja kundur tæpa stund, tóra mundi þanninn.

42. Meintu ráðið bezt í bráð, buðlúng láta' að vara. Brèf er skráð og tyggja tjáð, tjón hvert' náði að fara.

43. Reiðin heit á ræsir beit, rauna breytinn smiður, tèr, þá leit hvað Lígor reit, línþöll teita viður:

44. „Skoðaðu hvað mèr skrifað var, skaðsemdar ónáða, arð hvern bar það asna par, eg ofseinn var til ráða“.

45. Okkar kund mjög ángrar sprund, ó! að

eg stund þá sæi, djúpt í grund sú hrínga hrund, helvoð undir lægi“.

46. „Ekki trúi' og öðru' enn frú, ama rúin gleymi, helstund nú ef hreppti sú, hetjan búin seimi“.

47. „Efnið ljótt vil eg í nótt, út sjá fljótt með píku, verður hljótt með vaskri drótt, vinda skjótt að slíku“.

48. Svarar höndug seima strönd, síðavönd í flestu: „tapi hún önd fur trygða bönd, tel eg gröud hin vestu.

49. „Hefndin blóðs oss hittir fljóðs, höfund er móðs ei kènni, aflar hnjóðs, en einkis góðs, en orkum sjóðs með henni“.

50. „Hvílir Móðró hèr við lóð, og hreint við fljóði gleipti, Asíu þjóð sú ærnum sjóð, auðs hèr tróður keypti“.

51. „Hèr í ríkjum baugabrík, býðst þeim slík aldregi, þar að ýkjum vart eg vík, er við hana líkja megi“.

52. „Nú svo dreymir hali heim, svo hèðan af gleyma' ei færi, senn með þeim um saltan geim, sól ef reima bæri.“

53. „Auðs fer gná oss ómeidd frá, og við fá-um sannað, honum dáin hún er þá, hvorugt sjá fær annað“.

54 „Enda þegjum fleins við frey, fríð sè mey á lífi, kempu segjum kyrtils ey, klædd nátreyu blífi:

55. „Honum tjáist, híngað þá, hvetur stjáið bráður, fríð hafi dáið dregla gná, dögum fáum áður".

56. Hagnað fann nú hari þann, hitt og annað skána; fríðum svanna fjör svo vann, foldin hrannar mána.

57. Drottníng gèkk nú burt af bekk, bundist fèkk ei tára, því stúlku' og rekk með stygðar smekk, stofnaði hrekkinn sára.

58. Því næst hann, sem bjó til bann, boða vann í höllu, einn kaupmann þar innlendan, og báls hrannar þöllu.

59. Perla slóð við laxa lóð, laufa rjóð bað selja, kaupmanns þjóð og fyrir fljóð, fjarðar glóð sèr velja.

60. Gèrsemar sem göfgastar, garpi bar að nýta, hálft eins var til verðhæðar, varla þar að líta.

61. Gilfa traust ei skauði skautst, skjaldan laust við gróða, er talaði hraustri tarfs með raust, túngur austur þjóða.

62. Verk það faus nú vinna kaus, vitið fraus í dóla, sálar'aus stóð hvers manns haus, hreint fyrir rausi sjóla.

63. Snót ófrægð var, lýtt og lægð, lítt hvað ægði dárum, engin vægð nè hugar hægð, hennar bægði tárum.

64. Hryggri sprund ei leynt gat lund, lá við mundi springa, tára dúndi' af augum und, ofan um grundu hrínga.

65. Vísna prjál hèr verður tál, enn vart að þjál-
um kvarða; hver af málar hreina sál, harma stáli
marða?

66. Strákur vóð á stað um lóð, straums með
glóð höndlandi, kom hvar þjóð að kaupum stóð,
kvalið fljóð leiðandi.

67. Verri' enn dauða baugskorð bauð, brennd-
um auði viður, eins og sauð hið arma gauð, ei fèll
kauðum miður.

68. Var mjög start á vílið bjart, varð og snart
með gumum, klækisartað kaupboð margt, kom í
harðt með sumum.

69. Styttist mas með þjóð og þras, þángað
flasar stefndur, aura fjas sá einatt las, Úllías
var nefndur.

70. Ötult gnast hans augnakast, ágætasta fljóða,
hann gèkk að fast, því fèð ei brast, fágætast
að bjóða.

71. Tíu pundum pýngdi úr mund, pelli, sunda
brennu, og silfri fundíngs funa þund, fegurstu
mundar þrennu.

72. Svo komu rarir síðkyrtlar, söm hèr var á
tala, og treyu spjarir til kjörnar, tvíbyrgðar Savala.

73. Glæst borðkèr, hvers gèta ber, af góins
skèri beztu, fylgdi hèr, sem almælt er, af nauni
bera flestu.

74. Skal hafa máttkur Eneas átt, þó eigi' eg

bágt að trúa, og þess af háttum hrökkvi smátt, hróðrar þátt að snúa.

75. Orð nástæð hèr eg svo ræð, út ef næði þrykkja, að himin fræðis hugvits æð, hrein þar blæði Grikkja.

76. Kers á búk þess klætt var dúk, kvistum Gjúka voða, Grikkja ómjúku geira fjúk, gafst í lúkum skoða.

77. Að Trója brann og tyggja bann, teiknin þannig eru. Helena mann sinn hjá þeim fann, heim þaðan svo rèru.

78. Lokið bar það lista par, láng mest var að hrósa, teikníngar svo torveldar, traußt má þar af glósa.

79. Með fordild sást ment þar trylld, málmhaus þyldi' ei slíka, saga gild hvar sett af snilld, sást og skildist líka.

80. Gyðjur þrjár með gylltar brár, gullhnot klára fundu, Pean hár þar hjarðguð frár, hjá þeim stár á grundu.

81. Ágirnd svanna' um eplið brann, alltsaman fæst vitað, „mig sú vann er fríðust fann", fannst á þannig ritað.

82. Gyðjur háar, hèr er að tjá, hjarðguð þá til skylda, að dæma' og sjá hver eplið á, orð hans fá að gilda.

83. Metunum halla mátti karl, mútur allar bjóða, sýndist varla svoddan brall, síðu spjalla góða.

84. Júnó býður fjárheill frið, fyrst svo stríðið veki, álits prýði Pallas blíð, prófaða síðan speki.

85. Venus þá kvað hyggju há: „Hjart-ás fá skal snjöllum, refla gná með glæsta brá, gimsteinn hjá oss öllum“.

86. Hann lætzt stara' á heilagar, hlakkir marar roða, múturnar svo margbreyttar, mest þó var að skoða.

87. Vifið hann sér hollast fann, hvað sem annað væri; eplið þannig Venus vann, vart þó sann til bæri.

88. Öfundar hèr epli var, allt svo þar af kallast, sálirnar er sundur skar, sambúð hvar við gallast.

89. Söguna tjá hèr ef eg á, og einhvern gá þess fýsti, kèrið má í myrkri sjá, mikið frá því lýsti.

90. Hnappurinn Karbúncúlus var, af kólgu skara frænum, höggver þar á hátt sig bar, hèldt á Smaragð grænum.

91. Geislar drifu' um grana klif, gargan skrifast rauður, gjörði þrif á sjónar svif, sýndist lifa dauður.

92. Kaupið stóð, enn korða rjóð, kóngsþræll fljóð afhendti, er með tróð hann áls að lóð, eymd sem blóðug spennti.

93. Hèr án tafar hætti skraf, hrannir kafar flaustur, blæs með traf, þá byr til gaf, beint í hafið austur.

94. Hvergi þraung um gèddu gaung, gjálp hin faungulega, frú hèr saung um forlög straung, fergð var laungum trega.

95. Grátbað mey í gríðar þey, gjálp því fleyi kingja, harmi slegin hin kvað: „nei", en hætti' aldrei að sýngja.

96. Kom að dóni' um karfa frón, Caldea grónu veldi, og bifs við ón í Babýlón, buðlúng fróna seldi.

97. Kostaði þjóða kóngs af sjóð, kurteis fljóða prýði, elfar glóð sem ei til stóð, yfir menn ljóðum trýði.

98, Retla gná hve þreytti þrá, þar og tjáist fátt um, sjóla hjá, hvers síðar má, sögu fá af þáttum.

99. Þarna skil og ver enn vil, viður bil gimsteina, Spánar til má hjals um hyl, hlunnvigg kila beina.

100. Ráð óvalt þar vænkast snjallt, vaktur svalt ei ari, fèð tók allt er Úllías galdt, andar maltur hari.

101. Seims fyrir grú að seld er frú, sjóli trúað gètur, þó umbúa þykir nú, þörf og smia betur.

102. Marmara slètta mikinn klett, mentaða setti lýði, lystur prettum ljúga nett, lætur þetta smíði.

103. Laminn þar til þviti var — þrek ei spar-

að múga — að síðan hvar fur sjónir bar, sveifst ei þar að ljúga.

104. Hofinu hjá var settur sá, sögn ótlá um götur, þar var á svo þegnar sjá, það ei smágjört letur:

105. „Blanzeflúr sú Flóres trúr, fríða stúrin mundi, hels í dúr gèkk heimsvist úr, hèr svo húrir undir".

106. Þvíngaði leiður þengill eið, þorns af heið án pretta, fleins að meið þeim saknan sveið, sögn ei greiði' um þetta.

107. Mildíngs þá hver mundi stá, meðal fláu granna, þorns um gná, að þegni sá, þyrði tjá hið sanna?

108. Drottníng sór, í drambi stór, döglíng rór fær yndi; heim kom Flóres, hljóp af jór, í höllina fór með skyndi.

109. Gèð til stóð að frètta' um fljóð, föður og móður hitti, hetju góðrar hræðra blóð, heilsan óðar stytti.

110. Svara brá hann þvara þá, þar ei fá vill blundar, spara' eg tjá þar fara frá, fjara lá vill þundar.

---

## 4. Ríma.

Frum - eða twískothend gagra ljóð.

Flóres frèttir lát unnustu sinnar, vill fyrirfara sèr sjálfur, til að sameinast henni í öðru

lífi, svo að foreldrar hans sjá sig neydd til að opinbera honum hið sanna; þá heitstrengir hann að leita hennar, og þraungvar svo föður sínum til að fá sèr ofur fjár, fer heiman og frèttir til ferða unnustu sinnar á gestahúsi nokkru, stígur þaðan á skip og lætur þaðan í haf.

---

1. Heyr og grunda hróðrar tal, hjörfa grèr! af rænu stig, lóðins fund í ljóða sal, lætst eg bera fyrir þig.
2. Bágt þó veiti boðnar lá, bezta meðal óðsnildar, gèðs yfir veita grund og fá, greina beð til frjófgunar.
3. Leikinn hægja lízt mèr bráðt, lóðins ara víkja' á svig, herra Bragi hjálpar smátt, hann er farinn að svíkja mig.
4. Nú er að reyna' ef Hár við húm, Hliðskjálfs geingi burt af sal, ei hvort neina' af Ásgarðs, frúm, eg þá fengið gèt í tal.
5. Höll þótt varin hyggi menn, hróðrar flýti ei gnægtum sjóðs, skýzt eg þar inn eitt sinn enn, opt er lítil stund til góðs.
6. Þessi fríheit meina mèr, mun um æfi takast verst, helzt í því, sem hindrað er, hugnast gæfan sumum best.
7. Hafi gæfan hugað mèr, hlutdeild fyr í boðn og són, við má slæfast hindran hver, hún fann dyr þar ei nam sjón.
8. Óðs við dans þó drýgi' eg smá, drykkjulæti' um svoddan hèr, þróttur manns ei orkar á, upp að ræta forlög hver.
9. Því, sem rýrir gagn eða grönd, gleði ljær

eða vekur þrá, öllu stýrir ósjen hönd, opt má læra það og sjá.

10. En lærdómsríka' að leyfa sèr, lof má grenna hróðrar smiðs, skikkun slíka' að höndla' um hèr, halda menn það ei til siðs.

11. Harðra dóma heyri' eg þyt, handvíst skal þeim sálar morð, er innanum tómlegt rímu rit, reyna' að tala gagnlegt orð.

12. Þó ei prófa þori' eg rètt, þess ástæður svo sem ber, hyggjan sljóf vill hafa frètt. Heyrið, bræður! snöggvast mèr:

13. Hvað er verst að vísna skrá? vanhelgar hún sannleikann, eða beztan höfund há, hvers við bar og ritast kann?

14. En þegar vandað skal út skýrð, skála týs þá veitt er mar, kukls og fjanda dimmu dýrð, dárans prís og vanartar.

15. Efni ljóða' að vondra vild, verstum full af hneixlis aur, týast óðar tærri snild. troðið er gull í dýpri saur.

16. Kann ei vanda kristinn sið, kvæða greinum slíkt sú þátt, og þar blanda vogar við, viktugu neinu, það er satt.

17. En hvað við bar og heimi jók, hróðrar skrá og ritgjörð mèr, titull var af tímans bók, til að sjá hvörs verk hún er.

18. Hvar þegar gel af hróðrar þátt, hreinlega vinna þori' eg eið. að skammlaust tel þó tælist þrátt, til að minnast hans um leið.

19. Þessu svara munu menn: „máskè er sagan diktur einn, meiníng hvar um til er tvenn, traušt þar draga' af arð má neinn“.

20. Mínum bögum mitt skal svar: muni sá er slíkt að fann, dæmisögur diktaðar, dýrðleg á og biblían.

21. Fleiri játa' enn mæla mót. máni skín af sunnu dró, auli látist unna rót, ávextina hati þó.

22. Skoðum hvað í sögunni sjest, sem eg var að masa frá, fyrst um það eg ljóða lèzt, líka hvar hún stefnir á.

23. Gilfa' er háði geira rót, gjörði' ei ríngann þjóðlöndum. en ekkèrt tjáði að tuskast mót, tveggja' únglínga forlögum.

24. Tiggja gremur tapað spil, tjón svo bjó að lokum frekt, og hèr kemur ekkert til, annað þó enn náttúrlegt.

25. Hvað fær bagað hilmir lands, er heilum grand vann þjóðum tíðt? ef ei lagað ofsa hans, æðri handar varðhald stríðt.

26. Dæmi þetta þar að dró, þeink hve dýr er maktin sú, öflug, rètt, án ómaks þó, öllu stýrir þá og nú.

27. Mær og sveini meir enn þræl, munaðs æru' og fèsýknar, ástin hrein varð sigursæl, síðan lærist einnig þar.

28. Eins fær sannað efnið nett, án þess raupi' um hal og frú, hún var annað heldur enn slètt, hrossa kaup, er gjörast nú.

29. Þjóð varð klók í þeim og svinn, þetta skárst af reynslu sjest, við þegar tók hann mammon minn, málin ásta að dæma flest.

30. En hverr þá tekur hressíng bezt, hamíngjan okkar ráði því, þegar svo vekur þánkann flest, það sem nokkur dáð er í.

31. Mannvit næma' af mörgu dró, ment frægustu', er nefnast kann. en eptirdæmin eru þó. öflugust að hræra mann

32. Hræríng andar, hyggja svinn, hvar við yndi' og dygð er fest, og æru' vanda viðkvæmnin. við ímyndan lifa bezt.

33. Balsöm fæða bana mein, birtan spillir sjón á drótt, skèmtan kvæða holl og hrein, heldur enn kvilli sálar þrótt.

34. Margur hèr að mundi' ei dást, menn þótt kynnu bögurnar, ætla' eg mèr af íllu skárst, aptur minnast sögunnar.

35. Fyrr lèt vindinn beslu byr, bragar kala dansinn úr. hilmirs kundur hann að spyr: „Hvað hefur dvalið Blanzeflúr"?

36. Gram við stóð, en kèmpan keik, (köld alvara þýngdi brár), sèr að móður sinni veik, sjónlegt var hún feldi tár.

37. „Unnustan hvar er nú mín? innið, móðir"! drengur tèr. Svarar brannar loga lín: „Lofsverðt fljóðið dáið er".

38. Strax til kvíða Flóres fann, falar bætur engar sèr. Er lángt síðan"? að spyr hann. „Átta nætur". Drottníng tèr:

39. Týr spyr manar móins: „hvað, meyar fèri vann á svig"? „Hennar bani — hríngþöll kvað — hefir verið að trega þig".

40. Þótti' í eyrum þrumu slag, þjáðum nauð hvað mælti fljóð, veit ei meir um hèr sinn hag, hneig sem dauður, þar hann stóð.

41. Hvort á lífi bör sè brands. bríma rastar nálæg frey, franska vífið fóstra hans, forvitnast, en sá það ei.

42. Andvarpaði brínga heið, „hví vill negg svo

berjast tvist? ofan á það eg áður leið, er nú tveggja barna mist“.

43. „Auðnan stanslaust allt hvað kann, af mèr greip við nauða bað, lifni mannsbarn eg sem ann. óðar gleipir dauðinn það“.

44. Mörgum þjarmar hugraun heit, hari niðursleginn sat, fljóðin harma, felmtrar sveit, Flóres við unz raknað gat.

45. Mæddur tèr við móður nú, mál þó blandist tára hyl: „Líkna mèr og leið mig, frú! lofnar handa grafar til“.

46. Gjörði' hún það, svo graflctrið, gautur hrínga sjónum brá, og á þeim stað í aungvitið, annað þýngra fèll að sjá.

47 Inna þeingils öllum hèr, innra glata þóktist frið, þannig dreingur þrúnginn tèr, þegar hann gat nú raknað við:

48. „Gètinn er eg eins til kífs, öll mèr sjatnar ró á fold, ánægjan míns únga lífs, er að rotna' og verða að mold“.

49. „Nokkuð málað meir enn spil, mens var gèrður sú hèr dó, allt hvað sálar tignar til, talið verður, með henni bjó“.

50. „Hafi' nú víf svo harmað mig, heljar til að nægði mey, enn á lífi sýndi sig, sú, ef skilið hefðum ei“.

51. „Burt! þú nauðum nýsta fèr! nú uppbrýt

eg heljar port; leingi, dauði! leyft skal þèr, lítt að slíta samband vort".

52. „Strax og svanni misti mín, meyu nærstur stóðstu þá; en mig, þann sem óskar þín, ekki læztu mega slá".

53. „Hèr við eingin hentar bót, heimtar dáð mig bíti stál, slíka lengi' að lifa snót, lýsti bráðónýtri sál".

54. „Hún einsömul muna menn, mannkyns hylli verðug skárst, úng og gömul sjeð í senn, sönn að snilli hertók ást".

55. „Metnast, dauði! mín við gröND, meyan veri löpt og öll, þín skal nauðug heiptar hönd, hjálpa mèr á blómsturvöll".

56. „Blíðast víf mín bíður þar". burt af æðir leiði þá, tígilkníf upp tekur snar, tvístrar klæðum brjósti frá.

57. „Fljóðið bjart þig fèkk mèr að, fremja með þèr vilja minn", sagði', og hjarta stíft við stað, stilla rèði knífsoddinn.

58. Hann gaf rjóði mækja mær, meint hèr færð í grafar blund. Hljóp að móðir, hnífnum nær, hennar særðist nokkuð mund.

59. „Heyr mèr, son minn! — hrópar frú — hefnst ei djarft á lífi þín, engar vonir þá átt þú, barns til bjarta' að nálgast hlýn".

60. „Stefna nú vilt niflheim á, nefn aldregi

blómsturvöll; viltu trúa verða má, viti' eg treyu að lífga þöll"?

61. Halurinn stríður sór við sig: „Síst eg víti kvíði neitt, frétt skal síðar, feigan mig. fleiri bíti járn enn eitt".

62. „Kann eg þekka kalls og háð, kund þinn hafna' að smána, frú! skyldirð' ekki lífga láð, loga hafnar dána? jú"!!!

63. „Fyrst eitt líf án farsældar, frek mèr verður þýngsla sekt, úr því vífið eitt það var, er það gèrði þolanlegt".

64. „Síðan vildi' eg sjá um það, (sinnis krafa þar til ber), þið sem skilduð okkur að, aldrei hafið gleði' af mèr".

65. „Mèr skulu fjaðrir myndast brátt, mær til fylgdar skrefið styzt, hlut ef aðrir hefðu' að átt, hefna skyldi' eg vífsins fyrst".

66. „Lítt eg tel að láti blóðs, líf ómilda það fær stytt, uni vel þótt fjörtjón fljóðs, fleiri gildi ei líf enn mitt".

67. Drottníng svarað dreng ei gat, döglíng frúin hitti greið. Flóres þar í þaunkum sat, þrisvar nú í aungvit leið.

68. Hún svo talað gat við gram: „Guðs vors sakir fyrir þú, sóa kala' og heiptar ham, hjartað vaki föðurs nú".

69. „Nauða þrá vill hryggt og hrjáð, bara

skèrða niðja fjer, okkar þá til enda kljáð, ætt má vera' ef þetta skèr".

70. „Hvað vill stoða heimsku kapp? Hver þar ræður bætur á? Er ei voði hans óhapp? Hvernig stæðist ríkið þá"?

71. „Huggast láta hann mun strax", hilmir kvað. En sprundið tèr: „Á þann máta', að innan dags, ónjúkt laðar hel að sèr".

72. „Tapa lífi tilraun vann, tók ei leyfið áraðis, skoða knífinn! hèr er hann, er honum afþreif eg samstundis".

73. „Hetju dugur — bari tèr — hans ei lætur beygja sig; gèrð og hugur í honum er, ei fákætir þetta mig".

74. „Hans ei gáðum hátta grannt, honum var kvendi lengi með, hèr er að ráða' úr vöndu vandt, viðsjál hending oss er skèð".

75. „Þar eg neitt ei þekki snjallt, þegar svo núna horfist á; til er eitt: að tjá honum allt". Tvinna rún hèr gaf til: já.

76. Aptur síðan Flóres fann. „Fèkk eg leyfi satt þèr tjá — bauga blíð svo birta vann — berlega þreifa munt þar á".

77. „Burt við seldum Blanzeflúr, byrgða þegi moldin hèr, nú ei heldur ná til frúr, nokkra vegi lífs þú sjer".

78. „Faðir þinn vildi forðast hèr, það flestum

þókti heimsku par, að eiga skyldir þenkja þèr, þernu dóttir herleiddrar".

79. Lokið taka' af lygaþró, lætur sprund, og Flóres sjer, mundar jaka þöllin þó, þar ei undir folgin er.

80. Hann gèkk burt og herklæddist, hèr til nein ei veitti svör, lægði' ei kurt, þó lund sè bist, lófa-teinum greipti hjör.

81. Hans tók blóð í hamnum flug, harma fjarar ægan bekk, fyltur móð og ferskum dug, fyrir hara snúðugt gèkk.

82. Kappans undrast allir gèð. „Upp síðan í bráð og lengd, nú skal sundur sagt oss með — segir hann — og brugðið tengd".

83. Gramur tjáði: „Gættu' að fyrst, grimmd ei set í hyggju þèr, heldra ráð en hefir misst, hvert ei getur batað sjer".

84. Orðum blíðum buðlúng hann, bað nú gæfi sig til friðs. Hinn kvað stríður (harðna vann, hyggjan snæfa gilfa niðs):

85. „Aldrei þýðast eg skal víf, annað heldur enn Blanzeflúr, hvort eg bíð af hel eða líf, og hvar á veldi geymt er frúr".

86. „Vorn hinn kalda sinnu sal, svanna' að mýkja kærleiks yl, heppnast aldrei heldur skal, þó hennar líki væri til":

87. „Kveð eg hèr til Mahómeð, mætrar frúr

ei ástum stel, ein með mèr skal byggja beð, Blanzeflúr, eða drottníng Hel.

88. „Strax nú leita fljóðs eg fer, fold við skil og stýrir lands, eins hvort veitið allan mèr, afla til eða synjið hans“.

89. „Lángt ef styður lukkan fjer, ljóss og síkja næðum gná, fyrirliða fengju' í mèr, fjendur ríkis yðar þá“.

90. „Hyggið þèr þess heldur sem, hindrið, þengill! mína för, síður hèr á hjall eg kèm, hætt nema mengi sýni dör“.

91. „Ljóst skal það ef lènið mèr, leyfi slíkrar reisu blíðt, og viðbúnað sem ósk mín er, yðar ríki skal þá frítt“.

92. „Sært ef nær mitt svölun gèð, sáttir finnast skulum þá, hitt sem væri hreint óskèð, hèr ei minnast framar á“.

93. „Þar hjá er mín aldrei von, og mèr drekkir benja skúr, nakta hèr á nikars kvon, nái' eg ekki Blanzeflúr“.

94. „Lítt skal maka launsvik íll, lundin hrein fær sig útskýrt, mig handtaka má, ef vill, mun þó einum verða dýrt“.

95. „Yðar meiri' er yfirmakt, en annar dáð ei bugar sú; strax vil eg heyra hreint út sagt, hvað afráða þenkið nú“.

96. „Hægt viðgèrðar hèr er síst — hilmir kvað

og andvarpar: „þetta verður — það er víst — þýngri skaði' enn ætlað var".

97. „Lægíng þekkja loks eg hlýt, lukkan dáð-um sóar bist, maktar ekki neitt við nýt, nú er jeg ráðum sviptur fyrst".

98. „Nú ei fleytist neitt annað, nokkru mínu vart að frjáls, enn þèr veita viðbúnað, vilja þín-um eptir sjálfs".

99. „Viltu hèr á frón eða flóð, fjárhlut eða dalarlið? Kaupmanns bera kýfðann sjóð, kot-úngs gèð þó nefnum við".

100 Ansar Flóres ósmeikur: „Ekki skánar hagur minn, þó lèti' eg stóran leiðángur, leggja af Spáni' í þetta sinn".

101. „Kaupmanns undir gèrfi gá, gèt eg bezt og síst til meins, fastri grundu ferðast á, með fimm klyfhesta' og reiðmenn eins".

102. „Frekum klyfjum fákar þeir, fæði gull og saval-skinn, verð fyrir silfjar ánguts eyr, eg með fulla kjósa vinn".

103. „Einn skal drengja tala trúr, túnga flest er rèkast nú". Ansar þengill augnasúr: „Ei þig brestur hyggjan trú".

104. „Líf eða hel hvort lagið er, loks að vinni þessi för, klóklega velur þú víst þèr, þessi minnu-isverðu kjör".

105. Heimtar Flóres fullgjör sè, fljót hans

vild og krafa ný; gilfi sór það senn í tè; síðan skildu tal með því.

106. Halur utan hófs fèkk eyðt, harma stundum, þykkjan skar, tèða hluti til unz reiðt, tiggi grundar hafði snar.

107. Nú svo bráðum fylkir fer, Flóres búa' á sagðan hátt, tæmdi fjáðar hirzlur hèr, hölda trúa valdi brátt.

108. Hjónin völdu bauga bör, berlíngs flíka dýrsta val, brynju, skjöldinn, hjálm og hjör, hestinn líka greina skal.

109. Beizla naður bera vann, buðlúngs mana plögg án flekks, svo týaður kosta kann, kastalana góða sex.

110. Móðirin dreng að gildum gekk, gleði sljó þeim ángur skèr, drakons engi fríðum fèkk, fínt er dró af hendi sèr.

111. „Lógaðu eigi — línspaung tèr — loga glæstum fornum hríng, gunnur segir þörf sè þèr, þessum stærst á ofnis býng".

112. „Þig ei skaðar bif nè bál, baugs ef spyr að kostum steins, sí-t, þó að þèr ymji stál, ærast fyrir höggum neins".

113. „Hvers er leitar, hittir þú, hrínguriun sjálfur verkar það". Gullskorð teit af guðum nú, geirþíngs álfi ful tíngs bað.

114. Þíngið Flóres þakka rèð, þokka fínum

af kvað veitt, en hið stóra feiknar fór. föður sínum ekki neitt.

115. Treguðu dróttir stýfir stáls, stórum hann í metum var, eyðast þókti höll til hálfs, hvarf við svanna' og gramssonar.

116. Hugarins pín á lofðúng lá, leizt nú stund ofseint að gáð, arfa sínum þótt ei þá, þekkti' að mundi bana-ráð.

117. Mildíng vissi' ei mens hvar heið, mundi niður komin þá, drengs eða missa mundi' um leið, málefnið hèr svifar frá.

118. Styggur Flóres, stilltur þó. stuttar orðti kveðjurnar, hvatlega fór og hljóp á jó, hver fyrir portið leiddur var.

119. Loguðu flæðar ljós þar á, liti sýna gimsteinar, og yfirklæðis faldi frá, fægðar hvína bjöllurnar.

120. Fulltýaðan funa straums, flögta lætur mareldsþór, gullvængjaðan gamminn taums, geislaði stræti hvar hann fór.

121. Geýst fram hleypti' um grund og mel, gramsson trúr að þánkans bón, miz að gleiptu hauðurs hvel, hallar múra', er geymdu trón.

122. Svo kumpána sína fann, sem á undan höfðu lítt, eld með ránar aflaðan, yfir skundað hauðrið fríðt.

123. Spyr, ef kynnu segja sèr, seld hvar væri

Blanzeflúr? Einn það vinnur vigra grèr, varð svo fær hann leysir úr.

124. „Verður nú á vorri leið, vertshúsið sem gisti' hún í“. Hetjan trúa hvergi beið, þeir herða skrið og koma' að því.

125. Þágu gistíng, þá var kvöld, það stóð nálægt einni höfn, vín og vistir fólks þar fjöld, fèkk óstjál, er kom af dröfn.

126. Hafði sèr í hyggju sett, hirðir trega marðallar, sig sem bera raunar rètt, ríkmannlegast allstaðar.

127. Lèt svo plaga heima hjón, hilmis niður veitíng með, gamans hagað glöðum tón, gat þó miður enn óska rèð.

128. Blikuðu full um borðin þver — bjórinn ei var smáður hreinn — sjáleg- gull og silfurkèr, situr og þegir Flóres einn.

129. Lukkaðist rekk ei leifum meins, leyna' í runni bráskógar, heldur enn ekki' á hirðir fleins, húsfreyunni starsýnt var.

130. Tundurs ósa tróðan fyrst, tók afsíðis bónda sinn, hýr spyr drósin: „Hugkvæmist, hvað um lýð þèr nýkominn“?

131. „Hefurðu að gáð höfðíngjann, hoskra þinna gèsta vel? þennan skaða merki' eg mann, mein, er kynnu boða hel“.

132. „Drykk nè fæðu sinnir síst, sorgum klip-

inn þúngum er, krömurum æðra kyns þó sí-t, kaupmanns svip ei drengur ber“.

133. „Set eg í grun þú sjáir rètt“, — svaði jók þar bóndinn í — en vart þó munir veiða frètt, svo verðir klók á efni því“.

134. Þau svo víkja' í vínsal inn, vizku pund sú nokkurt ber, gèfni dikja sunnu svinn, síðar stund við borðið tèr:

135. „Ykkar glaðan ýmu blæ, ekki ber á skugga neinn, þagað um það til fulls ei fæ, en foríngin er þó hryggur einn“.

136. „Eg hefi gètað ángur sjeð, opt hvar strángt á hjarta lá, það og lèt eg þrávallt tèð, þar er ei lángt að minnast á“.

137. „Þótt, sem manna heimskust hèr, hefjist máls á þaunkum mín, líða' ei kann úr minni mèr, mararbáls hèr ein kom hlín“.

138. „Eitthvað grætti gèðs um stig, guðvefs þrúði veik eg á, en hún þrætti þess við mig, því eg trúði best er sá“.

139. „Teiknuð öll í ásýnd frúr, ángistir því virðtist mèr, björt var kölluð Blanzeflúr, síðar linna rósin hèr“.

140. „Prýddi vizka svip og sið, seims þó kvíða bæri gná, í kaldeiska kaupfarið, komst um síðir, er hèr lá“.

141. „Útvíluga fregn af frú, fólk mèr bauð

um næsta kveld: að sinn elskhuga hefði sá, harmað nauðug burtu seld".

142. „Þenkíng djarfa þar um eins, þróast honn til komumanns, bleikur farfi' af blaki meins, berari skín í ásýnd hans".

143. Nadda grèr þá nistis hrund, nefnda heyrði í þetta sinn, gulls af kèri' í mæríngs mund, mjöður dreyrði' á borðdúkinn.

144. „Flóres! yður finnum vèr — fèlagar segja brosi með — sekan viður húsfrú hèr". Hann og ei því neita rèð.

145. Aptur fyllti fleina þár, frú til drakk og skenkti kèr, hvar af spilltan halði bjór, huga rakkur framar tèr:

146. „Alls hefir vífið engu spillt, einlægt rómar hyggjufull, vizkan lífuð vín á skyldt, vörum frómum hæfir gull".

147. Skip þar lá við hafnar hlè, (heilstórviðuð svalteigs önd), er fèlagar sjá og frètta' að sè, ferðbúið á austurlönd.

148. Litlu síðar seggur einn, sæs frá viggja kom inn þar, að spyr lýð: hvort ei hèr neinn, óski' að þyggja með þeim far.

149. „Nota' í húmi hyggjum vind" — halur spjallar — „áls um karm, en ærið rúm á húna kind, höfum og varla þriðjúngs farm".

150. Gramsson feginn gègnir til: „gefst þar

heppið færi mèr, enganveginn eg sem vil, af nú sleppa', ef kostur er".

151. „Kynntu það þeim knör fær lèð, kýs eg far um þorskaleir, fimm klyfjaða fáka með, fimm þènara, og ei svo meir".

152. Marar-dags af mærri storð, megin fáng er gramsson bauð, farið var strax að flytja' um borð, fíllinn ránga gleipir auð.

153. Þannig búnum eyrindum að, orðlof tók og kvaddi hjón, fluttist núna fyrst við það, fullhuginn klókur straums á ljón.

154. Þunds á beðju þar nú fátt, þreiði halur, snót er ann, eptir kveðju blíða brátt, brá á tal við skiparann.

155. „Fyrst í bráð frá búki raums, boðið um græði var mèr far, vil eg ráða steddu straums, stefnu um hæðir marvallar".

156. „Berast vil, ef bætist lètt, byr um dröfn hvar hef um von, Kaldea til og ná þar nett, nærstu höfn við Babýlon".

157. „Kosta jeg með virðta val, veður mild hvort fást eða' íll, ríkmannlega rekka skal, reisan gildi hvað sem vill".

158. Mengið allt þar falt til fæst. Flóres sóma-boðs að auk, þökk til galdt og þessu nærst, þrymu dróma leysir hauk.

159. Strax þá siglu-voð upp vatzt, vængjum

lyptir hræsvelgur, harðt sig yglir kylju-kast, kólgu skiptir blæelgur.

160. Flóres veg sinn fara má, fyrrast land og bygða krans, vestra tregum vísund á, verð eg strandar glópur hans.

161. Herjans bára bjóra spör, bærist fjær, ei næríng ljær, ferju jára Flóres knör, þó færi' í hræríng ærinn blær.

---

## 5. Ríma.

Tvísamlyklað ferskeytt.

Flóres kèmur til Kaldeu; gistir þar í einum sjóstað, hvar hann frèttir til ferða Blanzeflúr, og hefir pata af, að hún muni konúngi seld. Hann heldur landveg áleiðis; er fluttur yfir eina stórelfu af fjárhirðir nokkrum ríkum, fær þar sömu frèttir og gistir hjá honum.

---

1. Skjóma góma skèrpi mèr, skjaldgæft baldurs minni, óma ljóma gildt svo grèr, gjald ölvalda finni.

2. Engri lengi ljóða dáð, leyna reyni' eg framar, fengi' eg drengskaps nafn af náð, nein ei skeinan amar.

3. Finni sylnnur fram eg dró, flokka brokks-kugganna, minna vinnur þrávalt þó, þokka nokkurn manna.

4. Innsta' að þynnsta sopa' úr són, seld' eg meldur ljóða, ef vinnst ei minnst að vinar bón veldur heldur góða.

5. En vèr kènnum óðar malt, illa snilli styð-ur, þá henni rennir hundraðfaldt, er hyllin spill-ist viður.

6. Var hægara lofðum ljá, ljóð, er hróðugt klíngja, en þar við svarinn þekkja hjá, þjóð sinn góðkunníngja.

7. Maður þótt skaði' ei svars með sigð, sjón-laust flón hann væri, ef að sèr laða lètist trygð, lón þó sónar hræri.

8. Fleira' og meira' enn fánýt ljóð, frægða bægð hvað veldur, heyri' eg deyr úr þánka þjóð, þægðin rægða gèldur.

9. Hóta njóta fæstir fá, fríðra blíðra siðra, ótal hljóta' að ýfast þá, iðgjöld stríðra hinna.

10. Sanni bannast vernda vel, veðsett með illi hylli, mann ægt kann svo myndast hel, með þeim lèð var snilli.

11. Má opt sá er sviptur blund, sig vill stig þeim kynna, háan sjá á ljúfri lund, lygarann sigurvinna.

12. Hallast, gallast hrósið valt, hjó sá fróa skyldi, varla spjallast um það allt, óleik þróa vildi.

13. Frægð þó bægða frekan keim, heppnum hreppi' af munni, slægða nægð í slíkum heim, sleppa heppinn kunni.

14. Gengur drengjum geigvæn spor, að gnúf-inni öfund-ýkin, ef heingíng fengið er heppni vor, höfuð-djöfuls-tíkin.

15. Fastlyndast sig fólk mun tjá, fýsa vísast ekki, lasti' að kasta lofsverk á og lýsa þeir um hrekki.

16. Sje eg að hver þó hrapar þrátt, hann í bann og lygðir, er ei sèr fær alit hatt, við arn-að enn sannar dyggðir.

17. En skjæra' ef æru skal þannig slynga

kynið feyja, væri nær mèr vandfenginn, vin ó-linan segja.

18. Fer allt ver eg nærfeldt nem, nógur þró-ast vandi, þèr og mèr í þessu sem, þó er ómiss-andi.

19. Mæti' ei hæti' af háska þèr. halla' og galla kvni, ætíð gætir óhult hèr, alla kallað vini.

20. Undir mundir eiga þá, engum gengi' og sóma. undran bundinn lofstýr ljá, lengi mengi fróma.

21. En hann sem kannar heimsvistar, hag og laga smíði, annað sannar, einhvers var, agaður baga' og stríði.

22 Fáum sá eg hæfa hal, hèr um berar mæla, skrá eða tjá um vinaval, vera þó mèr skal fæla.

23. Þrór eg bjórinn bar óhress, hörfum örfa' úr höndum, Flóres stóra' er þoldi þess, þörf í störfum vöndum.

24. Þá er dáins þilju glað, þreyngja' á engi karfa, gá og sjá hve gètur það, gengið þeng-ils arfa.

25. Rarast var ef vina lið, vild og snilld er styður, marar skar fèkk metið við, mildur hild-íngs niður.

26. Hver sem gèrist hèr í raun, hnáum lá-skars þundi, fjer svo verja fróða baun, fáum tjá nú mundi.

27. Tinhlíf lina skil eg ske, skjall ef ei hall-ar lygðir, og vina skin opt vinnur fè, en vala snjallar tryggðir.

28. Þar einn vara þyrfti fjer, þyldi 'í snilldar starfi, sparaði par ei heldur enn hèr, hildíngs gildur arfi.

29. Læra færi hjá oss hinn, hildar milding teina, nær svo væri viðkominn, vildi' og skyldi reyna.

30. Að manna' og svanna megin tryggð, mokar og þokar aptur, sannaði hann að hnekkir dyggð, hrokans ok og kraptur.

31. Hryggð og blygð má lítið lètt, leynd enn treind oss blaka, dyggðug tryggð hvar ríkir rètt, reynd og greind má vaka.

32. Hvað vill blaða' í heimsins bók, hrímkalks grímnis yggur, skaði' er það eg til þess tók, tímann ríman þyggur.

33. Týr man ýra grunns til gèkk, gyllíngs fyllin þarfa, dýrum fírug dröfn er fèkk, dyllað stillis arfa.

34. Þegnum vegnar þeir sem bar (þegi fley er tafið), megn í gègnum miðjarðar, megin reginhafið.

35. Nýt þar hrýtur hugmynd af, handa branda sveigi, er líta hlýtur lopt og haf, lands eitt sandkorn eigi.

36. Hvar sem bar þá hefríng um, herðist gèrður ótti, fara' að svara forlögum, ferð þeim verðug þótti.

37. Viku kvikar gjálfrið geims, gljáum láar hrafni, hnikars blikar hrundin seims, hágræn þá við stafni.

38. Flanar af grana fleinn við bjöð, flóða þjóð svo hagi, tranan manar trefils hröð, tjóðruð stóð á lægi.

39. Sjóð allgóðan gramsson fann, gírugum

stýrir knarar, hlóðum glóða hárs á brann, hýra týran marar.

40. Klerk hárs serkja djásn ódimm, drýgir því út taldi, merkur verka fenju fimm, frílega tíu' af gjaldi.

41. Kunni sunnu betur beim, beðjan gèðjast linna, runnar unnar glóða' á geim, gleðjast, kveðjast vinna.

42. Tínir rínar-tundurs víst, tjá ei sá að kvarta, líneik fín, en líf hans síst, lá honum þá á hjarta.

43. Þáð við háðlaus þakkar orð, þá með fáa granna, dáðum fjáður steig á storð, stjá var að sjá þar manna.

44. Bæði' á svæði byggð við mar, bjart og margt er tjaldar, hæðir gæðum hentugar, hartnær skart veraldar.

45. Ýtar líta' á bergi borg, bláu, háu standa, flýtirs nýta ferð um torg, fágaðir bráins granda.

46. Telur Beladathor drótt, dýra' óríra höllu, mèla dela Flóres fljótt, fírugan knýr um völlu.

47. Lista þyrstur bruna' að bý, beitir hneita vinnur, gisti fyrst að þorpi því, þeytir skeyta svinnur.

48. Heima beima heirann rekk, hèr virðt gèrir stærsta, seim lèt geyma' og sjálfs á bekk, sèr hann kèri nærsta.

49. Nú var — trúi' eg — Flóres fár, framar

enn gaman-blandinn, úsjen búin tálma tár, tamur er sami vandinn.

50. Hvað ógladdan frekt sig fann, far að þar af yrði, hraður skaði skiljast vann, skara marar nirði.

51. Heima beima herrann við, hjal samt ala nennir, geymir keim af kaupmanns sið, kali þó svalur spennir.

52. Kostaði hrosta sjálfur sèr, sínum og fínu grönnum, mostin þorsta virða ver, vínin skína' á könnum.

53. Gerðist mergðin glöð án brjáls, glóða bjóða forna, ferðugt herðast falir máls, flóði góðu horna.

54. Saupið staupa gramsson gaf, gunnólfs sunnu þundum, kaupmanns raupar kröptugt af, kunnáttunni stundum.

55. Vörum kjörinn bragníng bjór, ber að sjer mót geði, örari gjörist álma þór, er samt þver við gleði.

56. Varan hara hallar þann, hvort lèt spurt á vega; þar til svara þessi vann, þurt, en kurteislega.

57. Ala þeir tal, en aðkominn, aðspyr glaðjels viður, fala sala hirðir hinn: „hvað um það lítst yður.

58. „Meðan eg treð hèr storðar stör, stár mèr fár á vegi, eða gleði- og frama-för, til fjár, svo dárumst eigi“?

59. „Má eg spá — kvað mækja týr — mengi' (ef enginn spillir) fá mun gljáan grunnúngs fýr, gengi' og drengja bylli“.

60. „En sjóla stóli sverja trú, og svara landfarar tolli, kjóla njóli þarft hèr þú, en þar af eg pari' ei olli“.

61. „Á eg að sjá um buðlúngs boð, ber því mèr sú krafa, má og sá ei gánga' af gnoð, er gèrir hèr á vafa“.

62. Prett þeim flètta hugði' í hag, hnjóður móð svo letur, rètt var þetta reiðarslag, rjóðan hljóðan setur.

63. Villt og spillt hvort eyrindið er, á nè má ei duga, hann bylti' í kvilltu brjósti sèr, brá samt þá í huga.

64. „Mèr þótt kèri' eg mæta drós, manndáð grandar eigi, eru hèr við leidd í ljós, landráð fjandleg þegi“.

65. „En skjæra mær svo trú sè treind, tjáðri dað og nægjum, bæri' ei færa brott með leynd, bráð þó ráð til sæum“.

66. Neyð óreiður þornaþór, þar með bar sig mýkja, eiðinn greiður síðan sór, og svaraði skari díkja“.

67. „En uggvænn skuggi', er skörpum lízt, skorðaður horfði miður, bruggar stugg, hann bergir síst, borðið orðlaus viður.

68. Kífið þrífur þánkann hitt, þá svo á að fara, lífið víf nè sjálfur sitt, sá ei má nú vara.

69. Garfast farfa gremju kinn, grèr fleins ber of megna, arfann djarfa hilmirs hinn, hèr af gèrir fregna.

70. Sollinn hrolli sorga hví, sjáist lá-skars viður? „Ollir tollur þessi því, þrá svo hrjáir yður“?

71. Flóres sór: „Eg harma' ei hann, hvaða skaði' er þetta! fór eg rór að þenkja' um þann, það sem bað útrètta.

72. „Ber eg mèr um silfur síst, svardaginn var ei meira, en hèr með er oss vorðið víst, var mun hari' um fleira“.

73. Þannig hrannar hyrs kvað freyr: „Hvart sem snart það tiggja, kann víst annað Yður meir, á artugu hjarta liggja“.

74. „En því eg frí svo þar um spyr, þund baugs undarlega, að nýskèð hlýlynd hèr kom fyr, hrund seims bundin trega“.

75. „Kransað Blanzeflúr hèt fljóð, fríðleiks prýði krýndist, lands yfir skansa leidd af þjóð, líða' og kvíða sýndist“.

76. „Framar eg nam, og fljóðs það hrós, feimast ei mun viður, saman án gamans svipar drós, seims og geymir Yður“..

77. „Mey að þreyi meiður fleins, má nú á ei

stóla, að segja megi, en samt er eins, og sjáist á því bóla".

78. „Hjörs um bör mitt hvorgi gèð, hrepptum sleppt fær ánka, örugg för í skyndi skèð, skeptir eptirþánka".

79. Hlýða' á blíða Flóres fèkk, fregn af þegni' um píku, síðan um hríð frá grönnum gèkk, gègna' ei megnar slíku.

80. Kallar snjallan eintal á, yggur hryggur fleina, hallar allrar herrann þá, og hyggur tryggja reyna.

81. Par ei sparar auðlegð af, ýta nýtum verði, skarlats rara skikkju gaf, skrítin býti gèrði.

82. Fóðraða góðum saval svörð, sunds er tundri hrósar, glóð og flóða gildti kjörð, grund fyrir mundar ljósa.

83. Fjáðum ráði fýra snjallt, flóða glóða skèrðir, gáður tjáð lèt ástand allt, óðan hnjóð sem gèrði.

84. Heitir skeyta fast á frey, frètt sèr rètt útvega, ef veit hann teita meir um mey, metta þèttum trega.

85. Maðurinn kvað: „Eg handvíst held, hólsverð sólin spjalda, að í staðinn sè inn seld, sjóla' á stóli valda".

86. „Saurugt maura fremur flas, flónslega dóninn snéipti, og aura gaurinn Ullías, er óns vör lóna keypti".

87. „Skráð þótt ráði' ei skýlaust kann, skrafa' að afar hrellda, þráðaláð mun hilmir hann, hafa' án tafar selda“.

88. „Er svo hèr að öðlíng sá, aldrei faldsól slíka, ver hvað fer, nè væ nast má, valdari spjalda bríka“.

89. „Glansar Blanzeflúr á flest, fljóð hjá þjóð sem prýðir, en hans ei stansar höndlan verst, er bróður góðan níðir“.

90. „Lundhýr sprund við fyrni fjár, og flóða glóðir jafnar, stundum undir þvíngar þrár, þjóðir og fljóðum safnar“.

91. „En liggur tryggum lögum mót, láða ráður gildi, hyggja' að byggja beð með snót, bráður fjáður vildi“.

92. „Tíðar smíðað termín víst, tjá ei má svo nærri, síðar hlíði lofðúng lízt, lá-skars-ná sèr kjærri“.

93. „Þann eg kann að þenkja frest, þèr víst ber að nýta, hann þegar svanna hefir fest, hèr til er ei líta“.

94. „Goðin stoði geira bör, grund auðs mund á festa, en boðast voða frek þèr för, fund á sprunds ens besta“.

95. „Hèr um þó ber eg veika von, var er hari' um sprundin, þèr tekst ver ef þunds á kvon, þar til sparar mundinn“.

96. „Gull þeim skullu gleði lèr, gèstum mest

á bánga, fullhugi ullur fleins ef er, flest þèr bezt mun gánga".

97. „Sjáðu ráðin svoddan fá, sveinar einatt þreyta, tjáð og skráð er mútan má, meinlega steininn bleyta".

98. Fleira' og meira gulls fær grèr, gèðnga tèð um píku, geira freyr þótt gæti' ei sèr, gleði sjeð í slíku.

99. Tali halur hætti skjótt, við hneita beitir trúa, skal í sal til sátta' um nótt, sveitin teita snúa.

100. Rótt um nótt þá sjóla-son, svaf ei afar lengi, hljóðt í óttans hrakinn von, hafi' að kafar sprengi.

101. Ólund gróinn gat nú síst, gleði sjeð nè frama, rólaust þó, en rígfast víst, rèð honum gèð til sama.

102. Þyldi' og skyldi' hann þoka á dyr, því ófría lífi, trilldur vildi' hann tapa þeim fyr, tín' enn fríu vífi.

103. Grèr hlífskèra gat ei fort, grein þá neinu prísað, hèr fann sèr á heljar port, hreinlega seinast vísað.

104. Mey hveim þreyir myrk var nátt, meið dalneiðar fanna, feginn degi bjóst hann brátt, breiðar leiðir kanna.

105. Láð ást fjáðan lóðar vörð, lèð fyrir gèð-

ug mæti, og ráð af gáðum kjærleik kjörð, kveður með þakklæti.

106. Stund að mundi fagurs fjörs, farin þar hjá spáði, þundur kundi hèr til hjörs, bara svara náði:

107. Seig ei deygur sorg hvað býr, sjá það má ei duga, veiga feigur trauðt munt týr, tjá æ knáan huga".

108. „Bæri' ei færast fáng í neitt, fár er stær svo nærri, blær þeim hæru gugnar greiðt, gár svo dárum stærri".

109. „Hèr ef að ber þú hittir víf, blæa' oss æ það skyldi, þjer mun vera lengra líf, lagið og blæû hildi".

110. Ríta nýtan studdi' hann staf, stór orð frór útþýddi, ýtum flýtis orðlof gaf, óreynt sór ei hlýddi.

111. Gesti hrestum þel í þraut, þannig vann að hlýna, hesti bestum hèldt svo braut, hann við granna sína.

112. Síðan fríða sáu' mörk, sveimuðu þeim á torgum, blíðir prýðir blómguð björk, beimar gleyma sorgum.

113. Eigi segist á þá neitt, ólag róspell feldi, vegi og degi drótt fær eyðt, dró nú þó að kveldi.

114. Greiðir skeiða giltu lá, grundar undu stóra, heiði breiða senn við sjá, sunda þundar ljóra.

115. Var svo mari þreytti þrátt, þrifinn skrífast bekkur, þar skal fara í austur átt, yfir bifið rekkur.

116. Hindrun hrindir forsjá forn, fá menn sjá þar standa, mindaða grind sem hèkk í horn, við háa áar sanda.

117. Veit þess neita bragning brátt, bjóðar móðu skara, teitir þeyta hornið hátt, hljóði þjóð að vara.

118. Mannsett rann á móts við stóð, marar skar er prýddi, þannig kann að fást um flóð, far sem þar til hlýddi.

119. Grannar hrannar glæstir eym, grund um skunda sáu, mann frá ranni' að þèna þeim, þunds á sprundi gljáu.

120. Kann sá spanna róðrar rá, rekkar þekkir bíða, hann svo fann og flutta þá, fèkk yfir bekkinn stríða.

121. Mela hvel er múr á sjest, mót og hljóta stefna, F e l i s þelað blóma best, brjótar klóta nefna.

122. Svam ei ami svars um stig, svaf tollkrafan þanninn, gramsson framast gesta sig, gaf í skraf við manninn.

123. Þessi hress um hyggju frí, hjali valinn stýrði, hvessings versa tók við tý, tal er kala rírði.

124. Bar ósnaran bragning framt, beyg og

geig að sönnu, hvar hann var, en hjalið samt, hneig að veiga-nönnu.

125, Ýkt og drýgt skal ei hvað fyr, efnið nefnir kvæða, glíkt eða líkt hèr gramsson spyr, gefni' um stefníngs hæða.

126. Sprund um fundar Flóres enn, ferð að herða tefur, mund í hundrað silfurs senn, sverða skèrði gefur.

127. Þyggur óhryggur handar-snjá, hann sem þann rèð veita, hyggur yggur mækja má, mannval sanntèð heita.

128. Ferju ver þótt flutnings vès, falli varla miður, tèr sig vera fæðir fès, fjallbyggð halla viður.

129. Seim þó geyma og öflgan auð, átti' eg bágt til veiða, þeim svo heim til borgar bauð, bráðt að náttar-greiða.

130. Brjótar spjóta þekkjast það, þvílíkt tvíla' ei lengi, hóta njóta hýrra' í stað, hvílur skýla mengi.

131. Áður enn skráðan skildist við, skrá þó nái' eg miður, tjáð ómáð sitt málefnið, má hafa lá-skars viður.

132 Annars granninn grunar mig, gáður dáð þó fleyti, manninum hann ei helti sig, háð að ráðaneyti.

133. Sett um þetta sýnist mèr, sogan magurlega, en rètt hinn lèita beimum ber, bragarslag að vega.

134. Hljóði fljóð ei hlýða blíð, hnjóðar gróður nauða, óðar bjóð, hveim býður stríð, bróðir móðum dauða,

---

## 6. Ríma.

Stímuð Gagravilla.
(ýmist alhend eða suiðstöfuð).

Flóres kèmur í höfuðstaðinn, vingast þar við Daríum nokkurn, sem segir honum ýtarlega frá háttum konúngs, og það með, að hann hafi keypt unnustu hans til handa sjálfum sèr. Kóngsson skorar fast á hann um ráð, hverju hinn um síðir lofar, en þó með miklum geig og sterkum óvilja.

---

1. Hrannar þröstur þulins minn, þunnviðaður boðnar grunn, kaena vill í sjötta sinn, sunnu hafnar fyrir runn.

2. Staðfast hvergi stefnu ráð, stýður hann á nokkurt mið, hraðfleygast því hyrju gráð, hliðar ýmsar buldrar við.

3. Bar ei furðu brags um krár, bjórinn hárs þó yrði sljór, þar aldrei á steini stár, stórfeldt gèð og þánki' órór.

4. Snýr því vestra snekkjan sèr, snarar enn og þess er var, stýris-fjöðrin mjó hjá mèr, marar hálsa lítið skar.

5. Siff þó lund, er sjálf opt svaf, svæfi flesta þánka-kræf, lífið henni grið ei gaf, gæfan sízt er þar til hæf.

6. Úngur flækktist og við faung, ýngva fjörs

og þróttar-ríng, þúnga frí, en svoddan saung, sýngja tel nú óvirðíng.

7. Artin var að yrkja dýrt, yrðt því lágt og þaunkum firrt, margt í snilld og meiníng rírt, mykt ei fáum, dauft og styrðt.

8. Þó færi' eg krúsar-týs rauð tár, tér það einatt raunin þver, svo væri hreinna' og vandað skár, ver nú kannskè félli mèr.

9. Síðast engin laga' eg ljóð, leiðafrí um rænu heið, þó skríða mætti skyns af lóð, skeið andvara djúp og breið.

10. Spotta læri' eg málsmíð mitt, máttar skort þess kènni brátt, gott ef neinn fæ hróður hitt, háttar slíks mín lund sè sátt.

11 Það er að segja, þó um leið, þræði' og bogna sinnis-æð, hvað hèr nöldra' um norðra skeið, næði fleira, til eg ræð.

12. Ei eg lángan aldur bjó, að íhugan og þaunkum frí, segja má af þessu þó, því mig vekur raun óhlý.

13. Glöðum af hvað gaman stóð, glæðir sorg þá er nástæð, stöðuglyndi því hjá þjóð, þræðir burt úr sinnis-æð.

14. Meir enn sjer það mögnis-rir, márinn yggs og fjaðra sár, að tveir enn veiði tíðt og þrír, við tárugt líf og ísgrá hár.

15. Að ei jafnt um allt eg kveð, eð minn, slíks má kunna þjóð, en hvað er mest sem hryggir geð, hróðugur fær og vel útséð.

16. Innra trúi' eg mæt á mann, munnlega bæði' og verka kunn, vinnur ást og vináttan, vunnin myrkt þá fèll í grunn.

17. Hvað þá fleira festist við, fráðt eða snauðt af sannri dáð, að á jörð sè jafnlukið, það vær því ei raun aðgáð.

18. Ærukrans ei ástin ber; ara hárs þá steinblindar, særir gèð og losta lèr. larar þrótt umdæmíngar

19. Brngðna trú þá bauð eitt flagð, blygð er fyrir að reyna hrygð, dugði glóp það dára-bragð, en dyggðugur syrgir hrenna trygð.

20. Staðföst dygð og dáð lí guð, dauðlegs helzta sálar-brauð. aðgætt seint mun oftreguð, auðsókt vart sig fáum bauð.

21. En apalegt og ónýtt skap, æpir sáran gæði tæp, hrapar miðt í hryggðar gap, hæpið strax að varast glæp.

22. Heilbrigð aldrei bèr í sál, hylur auðsjen vegaskil, deilir margur dýpri mál, en dylur sig lítt hvað opt ber til.

23. Blendin margra bjagar greind, blind kappgirni spilt af synd, endurfáguð ílla reynd, yndislegri dygðar mynd.

24. Eg merkènni', að eydda dug, agar sál það hjarta-slag, þegar eg renni hnuggnum hug, hag á fólks og siunislag.

25. Bezt muni hvergi' að binda traust, bæzt ef mörgum tryggð fær glæst, flest í heimi finnst mèr laust, fæst ei segjast rótum nærst.

26. Mætti geyg í lund fá læðt leiðt nè inndælt, kaldt nè heitt; hættulaust fyrir Adams ætt, eitt í heimi finnst ei neítt.

27. Gild þó svör mèr geygðum held, goldin þegar, kladdur mo'd, vild'ag ei snerta vatn nè eld, sem voldug til að skaða hold.

28. Tel þó vægra bit eða bál, böli' um æfi lánga dvöl, helinu ægra tryggða-tál, töluverðan lýr þig spöl.

29. Smán á þèr skal bitna bein, blíni sveit á

óhöpp þín, lán, en aldrei hegðan hrein, hlýnað er það, sem á þèr skín.

30. En þótt saga' í óð snúin, annars muna sem eg kann, kènni veginn hèr í hinn, hann mun gèta sýnt þennann.

31. Mèr er spurn. en hjáls af hjör, hvar vinnur sú duglegt svar? Er nú dy gð eða frama-för. í fari lofuð gramssonar?

32. Það mun flestum þóknast lýð, þreyða drengur seims fann heið, að sú loksins á kom tíð, eyða lán hans dugði neyð.

33. En ef seinast sviki hann, þó sinnugur væri' og fastheldinn. hennar dyggð eða hamíngjan. hinn má klíngja rómurinn.

34. Nú er hann hetja nefndur. já, nei, en meiníng þolir ei, ósnotrasti þussi þá, svo þegja bæri stáls um frey.

35. Þó er tryggð hans sama sú, (sjáum við hann fella þá), en ró og fremd hans reisir nú, og rjá lèt hann við þetta stjá.

36. Fæ jeg þagað um það ei. á jeg víst að breytni þá, læris-gauð á lóðins mey. já honum mest í hljóði, já!

37. Að herða slíka háska-ferð hrærður innst af tryggðar stærð?, gèrður seims hvers var þó verð, værðarlaus af ást hans særð.

38. Ama' eg sveit ef upp með kem, eyma muni' af kolum þeim, að hamíngja tít það heiti sem, heimurinn kallar sjálfan þeim.

39. Er þó hann, sem ægur slær, órètt stig og tráðla fór, sèr, en láni sínu nær, sór það reynd, hvar þraut var stór.

40. En lund að festulaus sè greind. land vort nú ei hrekur grand; undrast má hèr efni treind, andvíg mansaungs-vers í bland.

41. Bar til þurðar brags um krár, bjórinn óma þánkinn sljór, þar í sal hjá fæðir fjár, Flóres þáði gisting rór.

42. Hraður að morgni mjög uppstóð, meiður fleins, er vanda kveið, glaðan hitti geira rjóð, greiðir hjal á þessa leið:

43. „Bið eg mèr þitt birtir gèð, blaða meiður dörs! hvort að, við erum skildir skiptin með, skaðlaust enn svo metir það?“

44. „Kann eg sverja — svarar hinn — sunnu hlès af aura brunn', mannlegar að mèr ekkèrt sinn, unni risna sómakunn.“

45. „Kærast hyggja máttu mèr, mór þó gèðs sè ræktar sljór, væri' að launa litlu þèr, ljóra bifs ósínkur þór.“

46. „Þar og mikil þörf til ber, þær eru raunir hjarta nær, sparað þitt að fengist fjer, fær þèr háska þraut óbær.“

47. „Vin, þann engum virðist svín, vona' eg eigi' í Babýlon; hin er orðin hyggja mín, honum þig senda líkt og son.“

48. Daríus heitir bauga bör, bar sá flest er gagn var að, sparar ei ráð nè sannleg svör, svarinn mèr til trúskapar.“

49. „Beri' ei drengur brögð við par, búrið meya' að opna trúr, sèr þarf enginn ætla þar, úr því ráða, er fær þèr stúr.“

50. „Yngva seims með öfluð þíng, engan veg

fyrir hý eg geng, fíngurgull og fjárhelfíng, fengins mèr skalt bera dreng."

51. Býr það undir björgúlfs-svar, ber honum hálft það skilorð er, týri vigra vímarskar, veri jarteikn allteins þèr.

52. „Æð stár fróns þinn vegur við, vóð nè reið þá engin þjóð, bæði geyma brú og hlið, bjóðar seims á þeirri slóð."

53. Fleira hvað sem hjala þeir, hara son og dáð sá bar, geira þekkar þegni freyr, þar með ríða fèlagar.

54. Viður kveikti guma gèð, gróða mærum þelnð lóð, að miðjum degi menn fá sjeð, móðuna sem brú á stóð.

55. Staðarins fèll sú múrum með, miðaði brú á skíðgarðs-hlið maður einn fá seggir sjeð, siðaður er þar staddur við.

56. Á bíluðum fínt, er stökk í stál, stól marmara hvíld sèr ól, skýlir að höfði skrímnis-mál; skjól þág hann af silki-kjól.

57. Týr gèkk fleina brátt til brúr, bar sig opna grindurnar, dýr þar mund' og dróttum trúr, Daríus skilja fèlagar.

58. Áður enn Flóres yfir um reið, eða nafn sitt hafði tèð, tjáðum rètta randa meið, rèð hann baug og gjaldið með.

59. Spillir fleins er glóði' á gull, gollúngs mála dýran þoll, hyllis tók með hótin full, hollan kaus þó brúartoll.

60. Fjórir alktíð ortugar, ýra fyrir hvern einn týr, vóru goldnir þegni þar, en þrír eins reið og byrðar-dýr.

61. Þá talið Flóres hafði hal, hylja glæður þær í vil, allið með sèr taka tal, er tilgreint fær ei óðar-spil.

62. Við þá mælst þeir höfðu' um hríð, hraður á svo Daríus kvað, biði' hann s'n að blundar tíð, bað hann heima' á sínum stað.

63. Kvað sèr hal þann vandgjört við, veiði fjár hjá reyndist greið, bað honum kynni leggja lið, leið hvar sæist til í neyð.

64. Nú hann fremur fór að tjá, feimulaust, þar komnum heim, frú hans gègna gèstum á, geyma fararkost og seim.

65. Ódult sýndi' og seggjum þá, segir: að hann blinds á mey, bjó þar skammt í forstað frá, en fleygjast heim sèr leyfðist ei.

66. Fíngurgull hann fèkk þá dreng, faung ei spara sagði þraung, lýngorms kènni línþöll eng, laung ei ferðin sè nè straung.

67. Tóres hèt sú tryggð að býr, tær í lund og vizku skær. Flóres heim svo ferðum snýr, færir baug og orð til ljær.

68. Bröndúngs þekkir baugsól grund; branda-þór er seldi' í hand, böndug leiddi' inn lofðúngs kund, og landa hans, ei þurrleg grand.

69. Dýrar veigar beimum bar, bjó inn dundi

svars um kór; frugt drekka fèlagar, en Flóres æ var gleði-sljór.

70. Þróast efi þels um bý, þá rèð halur við sig tjá: „Ókènndan hèr öllum ný, á mig berst nú hætta kná.“

71. „Að eg greindi gjör í stað, gráð hvað ýmu mest fær þjáð, hvað er vogun hærri' enn það? Háð er víst og grams ónáð.“

72. „Annars hitti' eg ei hèr mann, að inna dirfist þánka minn, kann þó ei sá hyl eg hann, hlynna mèr með ráðin svinn.“

73. „Eg hygg mèr að víkja' í veg, voga mundu færstir og, þegar fjörs er trana treg, toguð á slíkan skèrja-vog.“

74. „Eindreginn þó gjöri' eg grun, að gíni mèr sú yfir pín, leyna varla lukkast mun, línar seims hèr ást og mín,“

75. „Ángurs fífa' af styggðar-streng, stíngur flesta hugrenníng, hángir fast við hjartað dreng, hríng um það slær örvæntíng.“

76. Hvernig því sem falda fjórn, förnum hætt und sútar kvörn, smurníng veitti víns að fórn, vörn fannst ei hans gleði-þörfn.

77. Rjóð gaf auga randa meið, ráðlaus ekki baugaláð; en bróðir auðs að aptni leið, áður enn fannst þess hefði' hún gáð.

78. Brík þá seims hann tali tók, ef takast má

við liflegt kvak, mýkja hugði menþöll klók, makafátt hans sorga-blak.

79. Fálátur var Flóres þó, fríar hann engin tilraun hlý, ásýnd förfum ýmsum bjó, í því Daríus kom að bý.

80. Tjáðum gestum geira bjóð, gleðjast fýsti sínum með, gáði fast að randa rjóð, rèð svo strax hvað hèr er tèð.

81. Finnur að ángist færstum kunn, fannar greipa þöll á vann, inn með sèr því ýs bauð runn, á annað hús í skreyttum rann.

82. þeir afsíðis því nærst tveir, þar gengu til náttverðar, dreyri þrúgna' er dundi meir, Daríus þá svo mál fram bar:

83. „Segið mèr hvað sannleik í, sóar yðar gleði' og fró, megi' eg eitthvað eyða því, svo óspillt fáist nætur ró."

84 „Lítils eg ei mjög það met, mót sem fellur stála njót, ýtrum ráðum, ef eg gèt, ótæpt skal þar vinna' á bót."

85. Selur arfi tiggja tal: „tilreynt er um greiða skil, velgjörð meiri' að hæg sè hal, hylur sig mèr, eg ósk ei dyl."

86. „Að þig mætti' eg gæfu goð, gleðja slíkum sóma með, en hvað mèr verður helzt að stoð, hèðan af gèt eg illa sjeð."

87. „Innir þánkinn óvíst minn, annast hver það

nokkur kann, að vinnist mèr sú varan inn, vann og slægjast til hèðan."

88. „Þeir sem telja þreföld ár, þar um tjá hvað raunin bar, meir sè að gæta fengins fjár, enn fara' ei mis við gèrsemar."

89. „Rað eg í, traust sè vobraut vað, veðsett fær og snart er skèð, bæði vina fyrnd og fæð, fèð og kannskè lífið með."

90, Var sem lètti vigra bör, víra sá það lendur týr, þar inn hleypur hugar-ör, hlýra fèlags einn órír.

91. Kèrið sem eg kvað um fyr, kæran með var borguð skjær, ber, og setti' á borð, ókyr, blær við ýmu Flóres græn.

92. Kèrið minnti' á vella vör, var það nóg til skapraunar; hèr kom stans á stála bör, starir hann og andvarpar.

93. Sjónleg varð hans sinnuraun, sú nam ýfa bráa-dún, hjón við ræða hal á laun, hún rèð tjá með lètta brún:

94. „Þèr, en únga hetja! hèr, hjarið í eymd sem slokið skar, verið ei allt til voða þver, varist svoddan heimsku par".

95. „Vandi' er yður víst á hönd, vindur byrju breytir mynd, grand óhömluð hauka strönd, hindrar ei ef sjón er blind,"

96. „Orsök meins þá ei er heyrð, arðlaus

græðslu tilraun varð, skorðin framar sagði' ó-seyrð, svarðar snáks þeim vaktar garð.“

97. „Trúa slíku þarft ei þú, að þjái dreng svo fégirnd há, sú er meiníng sýnni nú, að sjái' hann annað mið uppá.“

98. „Hann sem kémpa klár-ífginn, kénnir engrar þarfnar enn, þannig fjárhag syrgi sinn, sennilegt ei ætli menn.“.

99. Stýrir fleins er styggðin lýr, stúrir, held eg, Blanzeflúr, fýra mun þá tjarna týr, trúr eins þreyja návist frúr.“

100. „Kunnugt lét mér kurtbúin, kvennprýðin þá var hér enn, að unnusta hún syrgði sinn, senn eru fundin merki tvenn.“

101. „Því eg og eptir þessu hjó, þegja skyldi' eg yfir, nei! að í hans nokkuð orðum bjó, ei mjög laust fyrir gríðar-þey.“

102. „Gott er, heiði' og gizkað rétt, grættan dreng ef fengir kætt, drottins-svik álít eg létt, þó læðt sé dúfu búrs um gætt.“

103. „Fljóð er ei hari' í braki' með, hvað um víf sem yrði það.“ Trúðan þagna tvinna réð, trað svo frá þeim burt í stað.

104. Flóres sá ei fremur var, færi' að dylja sig né mær, fór nú sagnir þylja þar, þær sem efni komu nær.

105. Það lét hann án tafar tíð, trauður lítt og

gjald fram bauð, að sem kóngsson ætti' hann með, auð og lönd ei nærsta snauð.

106. Gjörir bert sá gremja slær, geira hinn svo skildi freyr, að fjör sitt kosti' að missa mær, og meir' enn stafkarl í honum deyr.

107. Bað, ef gæti' hann lagt sèr lið, lóðins áður kyssti fljóð, að hann mætti minnast við, móðu skara þreyða slóð.

108. „Dárleg slíkt er dirfska' af mèr, — Daríu' verður fyrsta svar — fár í vísa' eg þýngsta þèr, þar um ef eg segði par".

109. „Þegja síst um þetta má, þú skalt satt eitt heyra nú, en eigi' eg rètt um allt að tjá, úhýr mun þèr skèmtan sú."

110. „Höllin sú er glæst með gull, gállalaus og há sem fjall, öllum þjóðum ógnarfull, allir sjá þar búið fall."

111. „Múr um hana sterkur stár, af stórum björgum hvergi mjór, trúr og fimmtán faðma hár, fjórir og einn er breiddin stór."

112. Þrjátíu hlið er þar að sjá, þrílæst kríngum sterkan bý, smá-kastalar upp þeim á, í þeim vopn og hildar tý."

113. „Þeir eru varðir þúngum geir. Þar eru hundrað riddarar, og fleiri' í hverjum, hèr því deyr, hari' og þegn, er vopn að bar."

114. „Þennan stað nú þekkja menn, þann við

engum líkja kann, en hans byggíng alla' í senn, annar neinn að skoða mann.“

115. „Hèðan færðu ei hana sjeð, hlýð því sögu, fram er býð, meðan ei nálgast torrek tèð, trýðu fáir slíkri smíð.“

116. „Ver ei þessi staður stár, er stara á þjóðir heims, hann var, hersetinn í heil sjö ár, hvar við þó ei meiddist par.“

117. „Sjá menn utan sala-grú, síbreytileg forn og ný, háreist turna hundruð þrjú, hlý er kèppast undir ský.“

118. „Staðarins eru strætin breið, stráð með trèn og aldin-sáð, maður má vandra lánga leið, um láð svo fái hálft að gáð.“

119. „Fallega margan fagran völl, fyllir múgur skrautmikill, hallar sjáleg inndrótt öll, ílltelj-andi reynast vill.“

120. „Ærinn þengils auka her, ör nær reyna þyrfti hjör, færir kóngar fimmtýger, föruneyti gott á hvör.“

121. „Þrem á nóttum tíðt eða tveim, tóm fyrir jöfurs boð og dóm, kèmur öll sú hersíng heim, hljómar prís af þeirra góm.“

122. „Höllin gleipir horskan soll, hallast þegi framinn snjall, öllum vínin verma koll, varla þrýtur dofra spjall.“

123. „Jöfurs slot ber öllum af, yfir sem líður

hvarma svif, götga þaðan hreins um haf, hiñn-ljósin grana klyf."

124. Klár í miðið mestur stár, marmara turn, er skrautið bar, þrjár hvel íngar hefur hár, er hvar á standa' ei merk'st par."

125. „Undarleg þar íþrótt leynd, undir býr nú lögzt í blund, hundrað faðma' er hæðin greind, og hundrað víddin nezt við grund."

126. ‚Á hans toppnum efsta má, eygja Sedrus-stángar grei, þrjátíu álna hún er há, hneigist lítt við skarpan þey."

127. „þar á gulls er knappur klár, knýr hann ský og þegi rír, Karbúnkulus steinn í stár, er stýrir víða geislum dýr."

128. „Ei skal jeg þar ýkja frá, í svartnætti steinninn því fleygir geislum til að tjá, tíu rasta' um frón og ský."

129. „Dregur hann ljós af sól í sig, sögur gánga af þessu mjög, fegurðin undrar fleiri' enn mig, fjögur heims um átta-drög.

130. „Ætti eg þèr nú herma hljótt, hitt sem málið snertir þitt, og mætti þykja á mildíng ljótt, mitt svo hjalið láta stytt."

131. „Stár í hilmirs höll'u jór, hrærist ei þó sè mann-bær, klára gulli gjörður stór, glærari mörg enn stjarna skjær."

132. „Vökur buna-vatns og kvik, víkur ár kok

hans fossi lík, jökulköld með strauma-strik, strýkur í gólfið kunnstarrík.“

133. „Gjöra þar handlaug hara' og sèr, hæru mót þó rísi blær, fjörugar meyar fimmtýger, en færa hvert sinn einar tvær.“

134. „Þengils tvisvar þjóna' að sæng, þvíngast hvern um sólarhríng, en engin breiðir ástar væng, ýngva fróns hvers tryggð er ríng.

135. „Manns ei sjá til mega neins, minnst þær njóta gleði-skins, Blanzeflúr í beyglum meins, blinds á kvon sèr óskar hins,“

136. „Að sig gæti' hann ekki sjeð, og óðara sitt það gildti blóð, en það eg slíku þverstæðt kveð, þjóðkóngs hugur til hennar stóð.“

137. „Ár hvert hann við eina býr, er drottníngar nafn þá ber, stár þá hugur hans til nýr, hèr af kvon að velja sèr“

138. „Hvílir ei saman vífa-val, vilji grams þar stár ei til, skýlir hann þeim í skreyttum sal, skilur þó allar Sedrus-þil.“

139. „Gá ei út af glæstum bý, á gróið stræti sprundin mjó, má ein aðra finna fíf, fró sem nokkra veitir þó.“

140. „Hver sem kæmi þegna þar, þèr að tjá hve vís hann er, gjör veit ei hvort sómi svar, sèr, því fæst hann skyn á ber.“

141. „Ei það neitt sem andlát bjó, í má koma

turninn, því, deyja lángar drósir, þó, dýflissan sè björt og hlý."

142. „Hèr líðst ei sá snót að snýr; snarir þeim til vöktunar, eru um hvert eitt húsið þrir, bara settir geldíngar."

143. „Stýrir vaktar stráklyndur, er starir eins lítt á jómfrúrnar, býr við portið blíðu-þur, bar all fátt, er hrósað var."

144. „Brennir ágirnd brokk, og hann, brynnir henni kostgæfinn, nennir opt að myrða mann, minna' enn ekkèrt sakbitinn."

145. „Lætur hann rètti myrða mót, ef mýtur ber eða klæði nýt, strætinu' á þann festir fót, flýtir því hans maura-hít."

146. „Nú skulu vönuð þengils þý, þá hvert sinn hann giptast má, trúlega víf öll teyma' inn í, trjágarð stóran, sem hann á."

147. „Stórfeld mörg þar björkin býr, bera þær epli nóg og hèr, tóra villt og tamin dýr, tèr ei neinn hve margt þar er."

148. „Garðinn vaktar bara hirð, hörð eru lög um vernd hans gjörð, varða hliðin grindum girð, gjörð með snilld og lásum vörð."

149. „Af eyri forgyllt fugl eða dýr, fær mjög prýddar grindur þær, heyrist þaðan hljómur nýr, hræri þetta nokkur blær."

150. „Oturs bótum bjaðar skaut, betri vöxtum

mörgum hèt, vot nè þurr hèr visna skraut, vetur ei meir' enn sumar lèt."

151. „Litklæðin á löndúags snót, lítast heiðblá, dreyrrauð, hvít; vitum, augum, eyrum mót, ýta streymir gleðin nýt."

152. „Staður fær sá fagnað lèð, frið og yndi' í hugskotið, maður lítur mánatrèð, í miðjum garði hávaxið."

153. „Átrúnaður er á því, óverðugur sýnist þó, dálegt heimsku dimmu-ský, dró þar upp, er sveit að hló."

154. „Æsir fljótið Ephrates, ós þar fram, sem björkin ljós, glæsilegra hyri hlès, hrósar blómi týrs á drós."

155. „Síki' úr því með kunnstar-kæk, keika' að vökva merkis-eik, víkur fram í lítinn læk, og leikur um rót, sem ei er veik."

156. „Kèlda tjáð er kunnstar fylld, köld og brenndu silfri' um föld, heldur frjófu' að vísis vild, völdum trjám og jurta-fjöld."

157. „Þeim í stokki fljóts við flaum, framan margt úr ánni svam, geimnegg foldar gnúið straum, gramur er jafnótt hirða nam."

158. „Brúðir eiga' um laufgað láð, leið yfir hann hjá blómgum meið, knúðar fram, það kóngs er ráð, kveið því mörg ein bauga-heið."

159. „Lækurinn sýnir lifrautt stryk, ef lèk ein

sig frá meydóm sek, sækist bráðt og brennist kvik, brek án dóms svo straffast frek.“

160. „Auðar nær þar ein gèkk heið, áður grimmd eða lasti háð, rauðan gjöra læk um leið, láð seims er því bana-ráð.“

161. „En trèð gaf bara trefla slóð, er trað þar nær ef felldi' á blað, og meðan hjá gèkk mey-an rjóð, maður í laumi hrystir það.“

162. „Þekkt gèturðu það órækt, þaktri skýlu jöfurs makt, ekta' og myrða' er allt eins hægt, aktar hræsnin ráð svo lakt.“

163. „Tjái' eg mánuð til þess nú, teygjast frest-ur sá mun ei. hátíðin er haldin sú, hneigir sjóli' á skaut sjer mey.“

164. „Blanzeflúr það mest fær meins, munns þótt gæti snilli korns, að hans vaið brársteinn engin eins, unz hún fellur sjalf til grunns.“

165. „Hvað rètt gizkar hèr á þjóð, hèðan af fær því enginn sjeð, að hann kjósi' ei önnur fljóð. eða fleirum giptist með.“

166. „Hrærir mig það hún svo deyr, hèr við líka sögnin þver, særir þig jeg segði meir, sjer þú hvernig þetta fer.“

167. Flóres greiðir svar og sver: ‚Særíng vold-ug fregnir þær, vóru' og eru víst, ef mèr, væri stúlkan nokkuð kær.“

168. „Móti þessu meyar-lát, metið ei til hálfs

eg gèt, rólfest hindrar gremja grát, en grèt eg þá hún öndu𝔡 hèt."

169. „Svarin tryggðum mèr var mær, meira svanni dreng ei þreyr, þó bara giptist sóma-sær, seyrulaus og fróm hún deyr."

170. „En að fleygjast fjörs í bann, og finna hvað leið unnustinn, kvennleg önd ei orka kann, þó innra píni hörmúng stinn."

171. Hraðt fær Daríus hjal fram sett: „Hitt mun verða' að sönnum kvitt, satt mun eg hafa sagt og rètt, sitt hún fjörið lætur stytt."

172. „Óvitað er öllum nú, á henni liggi voði sá, þó um skammt mín fèkk húsfrú, frá henni brèf, er því vill spá."

173. „Boðar ángrið, er jeg líð, að hann loksins vinni það, roða bifs að hreppa hlíð." Hraðmæltur þá gramsson kvað:

174. „Seinast öll mín eitrar mein, ónýt varúð baugs að rún, reynast jómfrú hèr vill hrein, hún er af engum lögð á dún."

175. „En finndumst við, það festi-band, fjöndum heipt má elna þönd, hindra má svo helzt það grand, hönd fyrir sjálfs að missum önd."

176 „Ef því happi stælt og stíf, stafrètt forboð anðnan gaf, gaf eg ei um mitt leiða líf, lafi þennan mánuð af."

177. „Þegar ei kèmst eg þetta stig, þögult allt

svo gángi mjög, eg eða þú skalt myrða mig, möguleg eru þar til drög."

178. Drengur svarar dáðmærlug: „Dángar slíkt ei happa-gáng, engan slíkan ógjörníng, ángruðum mèr eg tek í fáng."

179. „Til eg fyrri freista skal — þó felist undir mikil vèl — bil þig veiga senda' í sal, en sel þig þar með eins í hel."

180. „Þar hef' eg aldrei þenkt um fyr, þèr er bezt að sofna' og mèr, hvar að leiðir beslu byr, berar eg á morgun sjer."

181. Feginn verður Flóres því, fá nam værð um grímu þá. Degi skèrður dett eg í, dá eins mærðar-skímu frá.

---

## 7. Ríma.

Samhend Stuðlaljóð.

Frá ráðum Darí við Flóres, síðan viðskiptum hans og meya vaktarans; þá frá óeiníngu Felix konúngs og drottníngar, er nú tók við stjórn. Flóres kèmst í meyaturninn. Elóris nokkur saxnesk leynir honum þar í hálfan mánuð hjá Blanzeflúr. Þau verða uppvís.

---

1. Lengur teygja hjal þar hèt, hneisu' að þegja strax eg met, möndulsfley á mar því set, margur segir: ef jeg gèt.

2. Minn öfugur húkir haus, hróðrar flug sem

reyna kaus, þó sè hugur að rækja raus, reynist dugur veigalaus.

3. Treysti' eg svönnum týshallar, er tærðu á könnum skálamar, mens eru nönnur mjólífar, af mínum grönnum lofaðar.

4. En sè jeg andlaust ekki svín, og óbjargandi glópsku mín, mèr til handa viðris-vín, vatni blandað hjá þeim skín.

5. Hvað skal eg lengi' og hvaðan frá, bróðrargengis meðöl þrá? Hver vill drenginn hjálpa' upp á? Hver veit? Enginn gèfur já.

6. Vill, kunníngi! virðast þèr, vættir kýnngi seiði' að mèr, áns byrðíngi' er seinka sèr, sem íllþýngri farm ei ber.

7. Mun án kyrðar fljúga' af frètt, að fari' hann styrðan margan sprett, þèr ei virðast varan nett, verð að hirðast, þykja' hún lètt.

8. Að gramsson hlýði gèðsmunum, gullskorð blíð eins ástunum, Daríus snýðist allur um, og eptir stríði peníngum.

9. góðs hugþokka meðfædt magn — margopt flokkadráttar-agn — hans framlokki vizku vagn, og von um nokkurt eigingagn.

10. En hygg að, vinur! hvað þá skèr, bróðrar skin ef breytti sèr, nú ef linur þækti' eg þèr, og þvættíngs kyn, sem með eg fer.

11. Önd þegar sýkist ærlegs manns, undirvíkjast særíng hans, minna líka mærir krans, mærðar slíka hrærir dans.

12. En ef þín háfleyg herjans ygð, hreina sjá vill ekta-dyggð, virðir smáa vina tryggð, vinníng á ef þykir byggð.

13. Ef þú segir hjarta-heitt, hafi' aldrei að dáðum velt, dyggð eða megi nefna neitt, er nein tilhneigíng gat framleitt.

14. Ef þèr hroða svoddan sjá, sýnist boða vilkjör smá, grunns til skoða þèr er þá, þulins gnoð hvað tínist á.

15. Hvort í minni mærðar grein, manndyggð finnur, les og reyn, ei sem vinníngs-von óhrein, vald eða sinnis-líðan ein.

16. Hvað lízt þèr um heiðíngjann, hætta fèri' og tign er vann, skjöld fyrir bera skèmmdan mann, skörugt, sèr hreint ókènndan?

17. Lítt hann hugði' á lausatök, lèt albrugðin vina-mök, honum ei dugði' að heyra sök, hennar uggði fast um rök.

18. Hetjan stanslaus stránga vóð, stórfurstans að heiptar glóð, veltfeið hans í hönd er stóð; hygg eg manus þess ærlegt blóð.

19. Súlur reisti sannleiks tróns, sálar hreysti dáða þjóns, lömb út kreisti' af kverkum ljóns, kæfði gneista drambs og tjóns.

20. Skræfur jöfurs blygð við batt, beitti kröfu' um sannleiks skatt, skriplaði öfug hræsnin hraðt, hitti gröf og magnlaus datt.

21. Æðri trú þó leggi' oss lið, lítt sjest nú að óvættið, eins framknúinn sóma-sið, sèr til lúa glími við.

22. Kænt uppdraga sveitin sjá, seglin laga vorra má, stórmanns baga hliðra hjá, og hvern fyrir skaga með þeim ná.

23. Metum svinnu máskè vèr, málstofnin nþó skoðist ber, ljúgvitnin þó leigjum vèr, og lögbókinni fullnægt er.

24. Sèr ei stundum, satt er það, sannleiks undirlægjan, hvað, lögbók mundi markverðt að, meðvitundar kæmi' í stað.

25. Marar bál og hagsæld hver, höfðað mál

sem rètt til lèr, frá því sálast óhult er, auðnan þjál hveim fylgi tèr.

26. En hún stár í mammons makt, má þar dárinn hafa' á vakt, beslu kára skeið óskakkt, skal til 'jár því snemma lagt.

27. Annast var þeim elska hann, um hvað Darius fjár sèr vann, sem eg ei par af kveða kann, en klagi þeir þar um skrifarann.

28. Máskè daga gjálpar grèr, gat og þagað yfir hèr, hinu' er sagan ljós í lèr, loks við bagan hræra fer.

29. Hróðrar spili hnekkti dá, hjörs þar vill' í dvala lá, vírs er bil enn varð að þrá, vakna lil og so'na frá.

30. Dóttir narfa dimm og mjúk, dökku farfar hafla búk, meðan án starfa sveit ósjúk, svæfils karfa huld var dúk.

31. Strax og skýa rjáfurs rið, röðul-sfur glæstist við, fann Daríus fylkis nið, fór ányja samtalið.

32. „Breytist ei — spyr bauga ver — beiskur tregi' í sinni þèr, koss fyrir meyar — kapp-inn sver, — kæri! nei! það aldrei skèr."

33. „Duga má ei — mælti hinn — mann þótt slái hörmúng stinn, að fljúgast á við forlögin, fyrir en sjá þó bana sinn."

34. „Betra' er að vinna trega' og tár, tignar sinnar geyma skár, kvenn-ástin enn kefji sár, kóngdóminn þèr opinn stár."

35. Flóres svarar beiskur heim: „Blauður fara skyldi' eg heim, til að vara tign og seim? Tölum par ei hreifðu þeim!“

36. „Sál fánýt, er særir böl, svo hana þrýtur aldrei kvöl, hvert mun býta bráins möl, nè bera til hlýtar stjórnar völ?“

37. „þess eins arfa þjóð mig sver, þúngan starfa batt að sèr, lítið þarfa lyddu' í mèr, lofðúngs djarfa stóll þá ber.“

38. „Eitt sinn á þèr fyrst eg fann, að fleytast tjáir starfa þann, skaltu sjá mig sjálfmyrðtan, sendt eða fá í kastalann.“

39. Daríus tjáði: „Dagsatt er, duglegt ráð þar styrk til lèr, mun þó bráður bani þèr, bezt þess gáðu, skár er fer.“

40. „Hal þó drífi' eg hels í klær, hreint er vífið engu nær, nóg er lífið missir mær, en margfaldt kíf þá hana slær.“

41. „Dauðans vissa drjúgt hjá mèr, dug upp hissar — gramsson tèr — volæðis ei vegur er, víf að kyssa' og láta fjer.“

42. „Eitt er víf sem önd mín þreyr, ekkèrt hlífa skal því meir, sviptist kífi sál ef deyr, sinnis-stíf, og framar heyr!“

43. „það afglapi þekkir hver, það skal tapast hvort sem er, þar til skapast hver einn hèr, hels í gap að steypa sèr.“

44. Daríus tèr: „Eg dável sje, dirfð þú ber

og smáir spè, kalla' eg þèr ei kapplaust sè, að komast hèr af jarðríke.“

45. „Vosköp meir enn voðaleg, við mátt reyrast happatreg, og þar til keyra, það sje jeg, þyrnum dreyra stráðan veg.“

46. „Eg portveginn vakta fer, en vísa' og segja fyrst má þèr, til, hvar meya-turninn er, þá tök eru ei að sparir fjer.“

47. Svo þeir gengu sjónhæð á, sýndi' hann dreng hvar byggíng há, skýum þreyngja máttug má, mælti lengra' og enn rèð tjá:

48. „Klæztu' óríngum klæðum þeim, kosta dýngju stóra' af seim, berðu hríng af hrannar eym, á hverjum fingri' og örmum tveim.“

49. „Meðan eg gæti garðsins, þá, gakktu strætið slotsins á, mæltu fæti' um húsið há, en hver þèr mætir lázt ei sjá.“

50 „Gaurinn sá eg gat þèr tèð, gèldta sjál' um vaktliðeð, hægt þig fái heiman sjeð, hyllst til þá, en engan kveð.“

51. „Það eg játa, þú nær á, þennan máta byrjar stjá, vilja láta þèr mun þá, þorpara slátra bófi sá.“

52. „Komi þeir að þèr æðande, á engan stað þig drag í hlè, en spyr þá: hvaða hús það sè, og hver því maður ráðande?“

53. „Munu þeir frètta' á móti: hvað manngauð

þetta varði' um það? Vitnaðu mettur völdum, að viltu upprètta slíkt annað."

54. „Vilji skræður vega' að þèr, vondska glæðist í þeim þver, lyddur bræði laufinn, er leynt þá klæðum undir ber."

55. „Lundar geira, líkast finn, lítt við eiri hluta sinn, þegar það heyrir hötðínginn, heiptina reyrir ágirndin."

56. „Hyggjan breytast hrók mun þvert, hans þegar veit svo ríkur ert, en viðleitar hinu, hveit hjá þèr reita vinnst ekkèrt."

57. „Sig hann máka sjalfsagt fer, sig til hláku-lega ber, og hylur strák; en heyrðu mèr! hentar skáktafl nokkuð þèr?"

58. „Mennt þèr flíki má vel skè, maura ufk-inn spillvirke, er tíðar enn líkur til eg sje, tefldi' af ríkum mikið fè."

59. Týr báls rínar gègndi' af greind: „Gjörst má sýna þetta reynd, niður ei týnast trauðla skeind, taflbrögð mín og flestum leynd."

60. Daríus mundi dreng svo tjá: „Dragðu' ei undan taflið há, en settu hundrað sikla, já, silfurs undir við hann þá."

61. „Mátaðu dáðlaust manngauð seint, en mest til sjáðu' hann tefli beint, gjaldið tíðu' honum svo hreint, heimtaðu bráðum: það að leynt."

62. „Hann mun sáttur sinn með hag, svo vin-

áttan kèmst í lag, þýztu bráðt hans þokka-plag; þetta máttu starfa' í dag."

63. „En á morgun mæl þèr framt, móins torgar slíkan skamt, máta korgugt skauð um skammt, skalt og borga veðið samt."

64. „Þriðja daginn þángað ber, þitt hið dæilega kèr, loksins nægja lízt það mèr, lasta-bragi' ef þetta sjer."

65. „Bráðt munt skilja' á vigra ver, vart hvað dylja mun hann þèr, gríðar kyljan einlæg er, í að vilja tefla um kèr."

66. „Algjört nei þar nú til sver, nenni' eg ei að tefla ber, en sè þèr þegi sárt um kèr, svo framt greyið skenkur er."

67. „Spyrja svinnan hann mun hal: hvað til vinna þessa skal? Láttu' hann ginna tómlegt tal, tældu' hann inn í gort og skjal."

68. „Geirs svo þundi greina vinn, gátu bundin eyrindin, verða mundi' hann vilja þinn, víkjast undir jafnt og sinn."

69. „Honum sè sett í hendurnar, hvað útrètta viltu þar, hvort sem þetta þyki par, þúngt eða lètt til framkvæmdar."

70. „Áðar enn linna-hljóti-heið, hèr að vinni skröggur eið, enga kynni' eg aðra leið, að þú finnir vítið þreyð."

71. „Þú vel mátt og þar að gá, þig ei láttu'

hann snugginn sjá, honum lágt svo hermdu frá, hvar með sáttur ertu þá.“

72. „Efni sorgar engum þú, innan borgar fyrirtrú; klukkan orgar brátt við brú, birtir morgun, skiljum nú.“

73. Þetta skèði, skilja þeir, skein þá gleði Flóres meir, þó stað sèr rèði' í storðar-leir, studdi gèðið vonar-reyr.“

74. Framanskráðum fleygir brands, fylgdi ráðum borgarans, viðeign spáði vaktarans, vinur dáða rètt og hans.

75. Gjaldi hreinu gleipti' hann við, þó gildti' ei reyna skáktaflið, búið steinum borðkèrið, blekkti seinast greymennið.

76. Eiðinn sór nú óhikað, aura-þjór svo meðtók það: eyrindið Flóres upp þá kvað, hann seðrast fór og vægðar bað.

77. Fælinn kauði framar tèr: „Fyrir hið rauða bannsett kèr, ei er dauðinn opinn mèr, auðnu-snauðum fremur þèr.“

78. Flóres svarar: „Finndu víst, fjör mitt spara hirði' eg síst, svíkjast þar um þèr ef lízt, þítt skal fara', er vakta kýst.“

79. „Merk að ofan í myrkra krá, mækir klofinn sendur þá, eiðar-rofum nú skalt ná, niflheims-vofum segja frá.“

80. „fram ef kæmumst fjörs á stig, og feig-

an dæma sköp ei mig, meir eg sæma mundi þig, og manndáð ræma hèr við sig.“

81. „Felmtruðu skeini fæst gár vel, feigum einum steypir hel, að oss mein sú verði vèl, vissu hreina síst eg tel.“

82. Svarar gèldíngs greyið þá: „Geng eg hrelldur lífinu frá, lángt um heldur enn mig á, eið handseldum níðast sjá.“

83. „Þróar kvíða fjörsins fár, fram um síðir þar til gár, vèlar-smíðin varla klár, verða' að líða nætur þrjár.“

84. Hinn kvað stæltur hjörfa freyr: „Heill um væltu' og lofun eir, auðnan dælt oss eftir meir.“ Að svo mæltu skilja þeir.

85. Daríum fann sá dáðir bar, duldi' ei hann ens vorðna par. „Hèr ei annar vegur var — ver báls brannar gaf til svar. —

86. En veitt hafa þèr nú vist og traust, verður mèr ei háskalaust, þá þèr hèr um hvergi skauzt, er hlaut svo vera' er þetta kaust.“

87. Hermir dáðir hinn sem ber: „Hvað á láði verður mèr, olli bráðum bana þèr, beint ei ráðið köllum vèr.“

88. Arfi þengils þókti fár, þótt nú gengi' og horfði skár; lifði drengur öll sín ár, aldrei lengri nætur þrjár.

89. Millibil varð hans á hag, hvar við skil

og styrðan brag, Spánar til að taka slag, trönu kila herði stag.

90. Gusti hyrju hara' á svig, harms veik yrja geigvænlig, fór hann byrja' um Flóres sig, fyrir að spyrja' á hættu stig.

91. Firrti' ástæðum flestra von, fregn er slæðist blinds á kvon, að lendtu bæði' í Babýlon; björkin klæða' og gilfa son.

92. Um hann fara fyrst vill þá, fram úr skarar böl og þrá, lánið hara loks ei má, lengur vara, það er frá.

93. Það sem áður orðið var, að fá gáð né skoða par, enga dáð til buðlúng bar, en bölvaði ráðum drottníngar.

94. Henni þengill þrúnginn sver: „Þar til engin líkindi' er, sig að fengi son minn hèr, sýnt á vengi þèr nè mèr."

95. „Hryggðin eyddi hyggju-dúr, hèr þá veiddist fregn af súr, raunin greiddi glöggvast úr, gott hvað leiddi' af Blanzeflúr."

96. „Trauðt þó fæðist fegri mey, fast og kvæðir þú við nei, hefði svæði svelgt það grey, svo hætt stæði Flóres ei."

97. „Óreiknaðan eg hèr fann, ýmsan skaða samfergdan, óhagnað sem versta vann, en verst er það hún lifir hann."

98. „Tórt fèkk drengur — drottníng kvað —

degi lengur fyrir það, henni þreyngja hels í það, hèr á vengi mislukkað."

99. „Skèrðir kransa skèði þín, í skilnaði B l s n a e-f l ú r og sín, listamanns ef líf nú dvín, líftjón hans er sýsla þín."

100. „Þú hefir — víðar það mun sagt — þjóð-ar prýði' í duptið lagt, þèr má svíða, þína makt, þannig tíðast brúka skakkt."

101. „Dokk að geysa lètstu' um líns, logandi eisu drambs ófríns, harma reisir hjarta míns, og hamíngjuleysi sonar þíns."

102. „Víß þreyngir tryggða-taug, tapi' hún dreng í benja-laug, hèr þarf enginn henda' að spaug, helið ei lengi skilur þaug."

103. Hèr um ræddu hari' og víf, hvar af fædd-ist lángsært kíf, sálin hrædd þó særði líf, svanna glæddist þykkja stíf.

104. Buðlúng ei þar bót við leit, bugaðist þegi drottníng teit, beiskur tregi' og heiptin heit, hjarta greyið reif og sleit.

105. Rakst að bragði' í rekkju þá, ríkis sagð-ist önnum frá, rausnin þagði' og datt í dá, drottn-íng lagði hönd þar á.

106. Sló að kala seggja sjót, sem tók fala' á stjórn umbót, en konúngs-vali mælti' hún mót, mátti' ei talast þar að hót.

107. Hún svo tóra hafði' á gát, hjarta stór,

en aldrei kát, meðan ei Flóres frètti lát, fleina þórum duldi grát.

108. Funa síkja forsjál rein, færði ríkis starfann ein, jöfra líki' í löggjöf skein. Ljóða víki þaðan grein.

109. Nú er að minnast mál þar á, morguninn er kèmur sá, gèldíng finna gramsson má, gèkk hann sinnar leiðar þá.

110. Sal hans við, þó syrgi smátt, sjer hann lið ei margt nè fátt, herðti skrið og hljóp inn brátt, herbergið stóð upp á gátt.

111. Mjög lítt glápa mátti þá, maura snápur dreng er sá, þreif í skáp hvar lauf-þrykkt lá, lèrepts kápa' og færði' hann á.

112. Lítur bjóður laufa snar, laupar stóðu' og og karfir þar, hirðin, tróðum baugs er bar, blómi góðu kúftroðnar.

113. Veggtjald undir veik hann beim, von þar mundi' á skræfum tveim, hinn rèð grunda', er sóar seim, sat um stund í skugga þeim.

114. Ílát sækja þýin þreytt, þaðan svo krækja, gruna' ei neitt, vèlar sá flækju garn lèt greiðt, gaut fær mækja' að öðru leiðt,

115. Sagði' hann kundi þengils þá: „þessi stund ei venju brá, opt rèð sprunda flokkur fá, fiður grunda margbreytt sjá."

116. Grèr vèl-smíðar ginntur seim, grynnti' á

víða laupnum þeim, í honum fríðan fól svo beim, fèkk hann síðan öðrum tveim.

117. Sagði Blanzeflúr að fá, fegurst ranns á sendíng þá; þeir ei stansa honum hjá, hirðir brands nú grafkyrr lá.

118. þúnginn skrjóðum þraungva vann, þreytan blóð svo tók, að hann, beiddu móðir bölvaðan, er blóminu tróð í laupinn þann.

119. Mæðuligast mundi stja, marga stiga þar upp gá, veitti' um svig sem vænta má, vóru þeir sigalegir þá.

120. Æpir sá sem eptir fer: „Úr honum má nú rífa hèr, hreykjum þá því eptir er, upp svo fáum komist vèr.“

121. Ansar sá sem undan fór: „Ekki tjáir það!“ og sór, „refsíng þá um beggja bjór, bella' má og höggin stór.“

122. það ávann um þennan hrekk, þagnaði' hann sem eptir gèkk, og hræddist bann, en huldan rekk, hvorugan þó dreymt um fèkk.

123. Sálar mórauð svika-blóð, samt ei fóru rètta slóð. Hyggju stór og hjarta góð, hèt Elóres saxneskt fljóð:

124. Baugsól nærst hjá Blanzeflúr, bjó við glæsta turnsins múr, þeirrar æstu ferð til frúr, flónin dæstu, lund var súr.

125. Laupnum fleygja lyddurnar, lystir ei að

bíða þar; ein þegar meyan orðin var, upp stóð sveigir vigra snar.

126. Hríngs til tróðu hræzlu-gal, heyrðu fljóð um allan sal, blekkíng móð frá brúði stal, í blóminu óðar hann sig fal.

127. Víf þó hendi hnyssti' að rekk, hugar vendíng aðra fèkk, hinar kènndu hræðslu-smekk, hópur kvennda þángað gekk.

128. Baugs hvað hildar hræddi gèð, hópurinn gildi spyrja rèð, krónað snilld þar kvennval tèð, kvaðst fiðrildi hafa sjeð.

129. Snarpörugg af snilld hún laug, snótum bruggast þar við spaug: „Mèr mjög uggvæn eru þaug, opnaði' eg gluggann, svo það flaug."

130. Bjó það undir, bezt var frú, blíðu sprundi Flóres trú; þetta grundar gramsson nú, geigvæn stund þó finndist sú.

131. Ein þegar var hún orðin snart, ávarpar hún sprundið bjart, hendi fara' um skógar skart, skoða þar af nokkurn part.

132. Aldrei slíkt kvazt augum með, eða líkt því hafa sjeð, hin kvað sýkt og grátið gèð, gæti' ei ríkt hvar svo fær skèð.

133. Elóris sprund því betur bað, beisk í lund hin afsór það, fölna mundi, fljóð svo kvað, fiðrið grundar óskoðað.

134. „Vit, að hann sem hrósið ber, og heitin

vann eg tryggðar, er, verður annars víst af mèr, en venzlað manni lifi' eg hèr.

135. „Trault því nenni' eg laufin ljós, lófum spenna týs af drós, viti menn, þó veikist hrós, verð eg senn ein fölnuð rós."

136. „Nipt þó spjalda njóti' ei knífs, nú mun haldi kappa ósvífs, grams á vald, þó kènni kífs, komast aldrei skal eg lífs."

137. „Öndin hauður ei sem nam, undan nauð-úng hans og svam, mylsnu dauða' af mínum ham, máttar snauðum leifir gram."

138. „Flóðs sá eldi flíkar mest, Felix gèld-ur lengst og verst, er glóp mig seldi' í hönd sem best, þó hæma veldi gjöri' á frest."

139. „Franskrar þjóðar flekkast hèr, frjálsa blóð, og víst það skèr, þeginn sjóður móti mèr, mun honum glóð og eiturs-hver."

140. Slíkt meðan flaug um varir vífs, vultu' af augum perlur kífs, hverja' af taugum hennar lífs, hrollur smaug um skaps ósvífs.

141. Hrærður drengur þoldi' ei þá, þessu leng-ur eyra ljá, reið, er sprengir bjargið blá, brjóst hans fengi minnur á.

142. Hár beðs linna harðt upp spratt, hennar inn sèr til nú vatt, skorðar tvinna túngu batt, truflað sinni hryggt og glaðt.

143. Töpuðu bæði sjálfum sèr, sem við stæðu

daučans hver, hvar um ræča hálft sem ber, hrykki' ei skræðu líkri mèr.

144. Raun þar gèfið aldrei á, ástin hefir skár enn þá, að heli' um skref ei hopa frá, hreysti sefa megi ljá.

145. Fásinnan ei fylkis kund, fánga vann hèr minna' enn sprund, hvort í annars eins og blund, örmum þannig láu' um stund.

146. Snart það óvit batnar, brýn, báčum ró af augum skín, nær því hlóu hels að pín, hugsuču þó á forlög sín.

147. Aktaði meydóm menþöll sinn, sem maður á fleyi hertekinn, gjálp er leigir gullsjóčinn, svo grípi' hann eigi ræníngin.

148. Hjarta-stór því hafljóss gná, að hvílunni Flóres leiddi þá; það Flóris þegar sá, þángað fór og lágt nam tjá:

149. „Vafin dáðum vina mín! vissi' eg áðan þessi sýn, annrar náði þýðt til þín, þýngja bráðum samt vill pín."

150. „Handfjallač þú hægt fær, já, hvers eg bað og mátti' ei fá, blómið það í laupnum lá, leičt mèr hvað hèr var að sjá."

151. Kvenndi tjáir kvennvalið: „krapta má þá blómgresið, að helstund þá mig hrylIti vič, hèðan af fái' eg umflúið."

152. „Svo framt þú hèr sjálf að eins, sèrt oss

trú og ei til meins, efna nú ei kènnum kveins.“ Kvað þá brúin eðalsteins:

153. „Yður ef hlífi' eg ei við skraf, ei þá dríf eg hels í kaf, kvíði víf og vigra staf, vita lífi tekin af.“

154. „Almaktin — hin aptur tèr — oss hver finnast leyfði hèr, lengja vinna lán og fjer, líka kynni', ef hæfa sjer.“

155. „Hèr af þótt bæri, Blanzeflúr, bera lærir forlög súr, sem var æru sinnar múr, og sofnar væran hinnsta dúr.“

156. Þorna-rein svo þaðan gekk, þeim hún beina nægan fèkk, meðan leynir lukkan rekk, lèk þeim seinast auðnan hrekk.

157. Hálfsmánaðar streymdi' út stund, stjórn ákvað, hin nefndu sprund, fylgdust að um morguns mund, mildíngs hraða sèr á fund.

158. Elóris gèkk inn til vífs, innbyrðis í viðjum kífs, drós á mis og meiði knífs, málaði slis og háska lífs.

159. Hrökk upp snót og hal sèr frá, hugði skjótast burt að ná, hin sem fljótast flúði þá, fullt er mót til þessa sá.

160, Svo fljótt sprund af salnum er, sigrar blundur hina þver, þegar að kundi þengils sèr, þrykkja mundi' og sofna fer.

161. Herra lands í höll kom mey, hvar þó

Blanzeflúr sást ei, spurníng hans laut hríngs að ey, hin rèð ansa sprota frey:

162. „Allar nætur vella vör, vakir, grætur, les óspör, annt sèr lætur um þau kjör, ykkur mæti gègnum fjör.“

163. Þannig móð hans svæfði svinn, er sjá vill fljóð þó morgun hinn, stýrir þjóða' í þetta sinn, þjónaði rjóð og sárhnuggin.

164. Morgun annan menja gná, minna vann þau skarpar á, fjörs hve bann hèr fljótt við lá, fara' ef þannig optar má.

165. Vakna bæði, höfðu' um hljóðt, hvorigu næði verður rótt, tók sig klæða fljóðið fljótt, ef frest á næðist helboð ljótt.

166. Mestu klædd var mengrund þá, meyan hrædd er burt nam gá, drósar væddi blundur brá, brjóstinu læddist óttinn frá.

167. Þá burt skundar þorna lín, þengils kund eins ráðið dvín, hneigði sprund í sæng til sín, sú var blundar makt ófrín.

168 (Svo hjá smeikum sjest ei hvað, svefn einleikinn fèkk vel stað, sagan veik þar ekkèrt að, eða kveikir grun um það).

169. Elóris hari' er eina sjer, andgrundar hann spyrja fer. „Fullklædd var hún fyrri mèr — fljóð gaf svar — og strax mun hèr.“

170. Gengur sprundið fylki frá, fýsast mundi

handlaug ná, hún ei grundar hadda gná, hin í blund svo fèlli þá.

171. Þýngir lundin þengils brún, þraut hann blundar værð á dún, siklíng undrast seims um rún, svo leið stund, að ei kom hún.

172. Kóngur seinast kallar þá, kèrtasvein, og skorar á, að prófi hreinan sannleik sá, s a f f í r-steina vitji' um gná.

173. Munn í skorins glugga gamms, gautur borir loga damms, þau hvar voru' í værðar hams, að vörmu spori kom til grams.

174. Og honum tjáir: „Umfaðmar, E l o r i s þá mèr finna bar, báðar sá eg sofnaðar, saman láu varirnar.“

175. Grön ei sprottin grams var nið, gabb það spottar drengtetrið; nýan votta sagði sið, sjóli' og glotti kaldt þar við.

176. Gilfi rís upp, grípa vann, gneista týs, og þá kvað hann: „Hvort hún hýsir mey eða mann, mun eg vís um smámsaman.“

177. E l ó r i s hèr áður var, aldeilis frá hún sè þar; lofar opt glisi lukkan hvar, lagði slis til skap-raunar.“

178. Sjálf náttklæðin sjóli ber, svein þann ræðan fèll um hèr, upp þar læðast línþöll er, lætur og þræða fyrir sèr.

179. Hèr sem spakast hann lèt þá, hlerann

taka gluggnum frá, hvorugt vakir þeirra þá, þó rèð slaka vissu fá.

180. Bæði hèr við huga minn, hrylla fer sem ljóð af spinn, þar til er jeg uppgefinn, óma kèr-ið tæmt þar finn.

181. Skar andvara farið far, fjaraðan vara hara mar, bar að varar þara þar, þvari vara spar-ar svar.

---

## 8. Ríma.

Stikluhendíng eða samhendt Stikluvik.

Flóres og Blanzeflúr faunguð; sett í díflissu; dregin fyrir rètt; þau þola rannsókn; honum dæmist einvígs-eiður upp á sögn þeirra, hvern hann og svo sver. Þau sættast við konúng, og gjörir hann metnað þeirra svo mikinn, að vinir þeirra hefjast allir nokkuð, og skenkir þeim vel vopnað og skrautlegt skip til heimreisu.

---

1. Ásnum fróða víst eg vil, vökva blóð ef mætti, bráðum lóðins bikars hyl, brestur óðar fánga til.

2. En orku trauðum tekst ógreiðt, tilraun nauðugt hafin, að mun blauðum háði hreytt, og honum ei dauðum blæða neitt.

3. Ei síst nú þar efnið brást, eg sem lúinn sleppti, en vildi trúa skarta skárst, og skrauti búið helzt til fást.

4. Þótt nú augum þenkjarans, það sè baugum

fegra, hèr að spaugar múgur manns, mærð þegar flaug um eyru hans.

5. Flestum öndum þar og þá, þykir vönduð hæfa, hunángs blönduð lóðins lá, leystra' af bröndum nóg hvar sá.

6. En þótt lèti' ei ljóða dans, ljúft svo meta kynnum, sigur hetju sannleikans, seinna getið látum hans.

7. Þeim ei geta þaunkum beitt, þunds nema hretin viður, einvíg letra loksins eitt, lítt finnst betra' enn ekki neitt.

8. Hróðrar smíðin hvort mèr vinnst, hrós eða níð svo vinni, og suma það tíði samt mèr finnst, sögunnar prýði þar í minnst.

9. Arfa þengils þótt nú hlíf, þar við fengist vunnin, missti' á vengi við það kíf, vaskur drengur saklaust líf.

10. Hver þá fángast hlyti deyð, hlinur spánga frægur, sór ei rángan einvígs-eið, með ættartánga kèmpan reið.

11. Dör og lostinn drengur var, döglíngs rosta vegna, og afurkosta', er upp hann bar, en ei blóðþorsta gramssonar.

12. Hans þegar sálar steypti stað, storm óþjálum vigra, þundar bálið þrátendrað, þökti málið fullsannað.

13. Slíkt vèr finnum falska leið, fólk þótt kynni spyrja, hvort enginn, þótt hæg sè neyð, hættari vinni með oss eið?

14. Svo kann vera', en sveini lá, sýnist mèr ei hæfa, glæður fjer þeim andar á, opt fyrir þera muni smá.

15. Æðrulaust hèr maki manns, mækir hraustur reyndi, samt í trausti sannleikans, og sigurinn skauzt ei vopnum hans.

16. Vísir frór ei við því bjóst, og varla Flóres sjálfur, mens um þóra málms í gjóst, munaði stórum, var svo ljóst.

17. Sá að varast basl í bráð, bragna skari kallar, afsalar sèr alvalds náð, óhultara taki ráð.

18. Yðran vanda vill og kann, voðann andar flýa, svo skal standa hitt sem hann, heitinn fjanda bera vann.

19. Ekkèrt það sem þar í bjó, þykir skaða kunna, og enginn maður eptir hjó, uppá hvaða von hann dó.

20. Í sá þæktist verjast vök, og vandlega gætti' að öllu, fastari mætti fá til rök, fjöri' að hætta' í rèttri sök.

21. Fángaðan í fjandans net, fastar þann eg meina, hverjum manni merkt sem gèt, meineið vann og standa lèt.

22. En andar deyð sá ætla kann, af hèr leiða megi, svarið greiður gæti hann, glíkan eið þeim **Flóres** vann.

23. Flèttar styrðan klækja krans, Krists ef hirð út smána, haldinyrði heiðíngjans, og heilög virðíng sannleikans.

24. Eiða rofum á hvar gýs, alda hrof má skjálfa, blessan dofin burt þar frýs, en bölvan ofan af himnum vís.

25. Við þarf næmur sálar sans, saur þeim væma láta, er hreint vill flæma' úr hjarta manns, herradæmi sannleikans.

26. Menn hvar víkjast skeift og skjalft, skyldur slíkar undir, þar er í líki sólheims sjálft, satans ríki meir' enn hálft.

27. En styggja bæði hann og hans, hlýða mun skræðum illa, óttinn læðist óðs í dans, og endíng ræður formálans.

28. Strauma hèri þulins þar, þagnar-frera stokkinn, brast á skèri blinds með skar, buðlúng er í lopti var.

29. Birtan inn þótt skíni skær, skap og brinni hara, hvort þar finni mann eða mær, meir enn hinn ei dæmt um fær.

30. Svo nú þetta sæist ljóst, sveinninn mettan kvíða, klæðum fletta bragníngs brjóst, bað, er slètt ei lengi dróst.

31. Hár við reis og heiptin skèr, hara geysilega, bræði' úteys, hann fllvíngs fer, friðband leysa', en sveinninn tèr:

32. „Ei svo bráðum blinds með eym, beint afráða hirðið, hrínga láð og horskan beim, hafið áður tal af þeim.

33. „Hvernig færi', ef halur sá, hennar væri bróðir, segg og mær að sveðjan gljá, saklaus skjæri bæði þá?“

34. Stöðvar þegar hari hjör: „hitt sjer eg — tók mæla — að konúnglegar kannskè gjör, kèmst til vegar hefnd óspör.“

35. „Betur enn hnekki benja laug, báðum hrekkja lífi, snót og rekk má rira spaug,“ rólega ekki vakna þaug.

36. Beit ei fárið fleins á njörð, fylkir brár þótt ygli, en bylgjan tára beisk og hörð, brast um klára nystis jörð.

37. þeirra bráður bani þar, býtir sáða kraka,

þókti náð úr því sem var, þá aðj ráða', og mál fram bar:

38. „Hvað er í vegi? hví nú þá, höggvið ei sem lystir, ef þèr megið manns blóð sjá?“ mildíng segir: „það er frá!

39. „Afgáng þú skalt annan fá, allt eins rúin sóma, pútan sú þèr hvílir hjá.“ Hinn tilbúið ans gaf þá.

40. „Þar um útsjeð ætla jeg, að fyrir mútum þínum, svanni lúti vamms á veg, og verði púta náttúrleg.“

41. „Tyranni! heyrðu! þakklaust þèr, þau óseyrðu hjörtu, tryggða reyrðum viðjum vèr, víf tilheyrði' ei nema mèr,“

42. „Hèr fyrst kraup eg hríngs að ey, híngað í laupi borinn, þenkti hlaupast um þó ei, og ekki kaupir þú hèr mey.“

43. „Vona' eg megi þetta þèr, þá í vegi standa, hræðumst ei það hèðan af skèr.“ Hatri sleginn gilfi tèr:

44. „Lægt óblauða þitt skal þor, þú skalt nauðugt finna, að gæfu snauð hèr gekkstu spor, en grimmur dauði hefnir vor.““

45. „Hjóstu sár, enn hitt ei sjer, hverjum stár á beini, elli grár á heimur hèr, hvergi dára líkan þèr.“.

46. „Veslari háttar vífa-búr, vernd hafa þrátt

hjá mengi, sjest þegar hátt við hánglð múr, hver með átti Blanzeflúr.“

47. Gramsson svarar: „Fellur fjer, forlög, hvar sem vilja, lúta þar ei þessi þèr, þinn fyrst sparar máttinn hèr.“

48. „Lítinn bæri' eg lífs-fögnuð, leið ófær mèr reyndist, og enn þá mærin óspjölluð, ef þú værir nokkur guð.“

49. „En um gaung úr heimi bremmd, hversu straung sem verðum, skapraun laung, en skammvinn hefnd, skal þèr þraungva lengi nefnd.“

50. Lofðúng ræðan ei fær egnt, ylvíng skjæðum bregða, hann skalf af bræði, gat ei gegnt, grimmdar-æðið varð svo megnt.

51. Staðarins herja þengill þá, þaðan ferja lætur, sitt í hverja sorta-krá, er sveit skal verja stálum grá.

52. Fljóð sín klæði flest öll bar, fylkir skjæður eigi, lèt af væða línþöll par, en líns í slæðum gramsson var.

53. Háskinn fèkk nú happa táls, hvorki' á rekk nè svanna, bæði hlekki báru stáls, er boðuðu ekki voru frjáls.

54. Dyravörður vífa-ranns, viðjum hörðum líka, fjötrast, kjörður beint til banns, beimar drðugt gæta hans.

55. Illan skar hann ávöxtinn, ágirndar af þyrn-

-um, illa var hann viðkominn, verr þó bar hann mótgáng sinn.

56. Æðru gólið gaurs ófríns, gramdist fólum hinum, dörs meðan njóli' og dokkin líns, dauða róleg vænta síns.

57. Auglýst var nú innan skamms, allir hvar sem byggi, birtust þar í hörðum hams, höfðíngjar úr ríkjum grams.

58. Fórst og meginn fundur sá, fyrir ei, en skèði, þriðja degi þaðan á, þar er að segja nokkuð frá.

59. Hugar grip um hraða þann, helzt þó fipast megi, makt í svip það vísis vann, varð alskipuð ráðstofan.

60. Marcilíus hari hèt, helztur í þeim skara, brúkaði sí-rètt sannleiks met, silfrið blý ei heita lèt.

61. Tíðt ákafa vanda vefst, vit sá af ber mörgum, þess án vafa þengill krefst, að þessi hafi dómsvald efst.

62. Trúði hari helzt óslök, hans alvara mundi, nú upp bar hann sína sök, síst við sparar gögn nè rök.

63. Fylgdu' ummæli þessi þá: „þvílík fæla' og sneipa, gèðs í kælu beiska brá, brúðkaups sælu' er hugðum á.“

64. „Um höfum brekað að gjörðir, aldrei sekum

hegna, þèr nè frekum hels með hyr, harma rekið vorra fyr."

65. „Svoddan gaf oss bleikan blett, bein er krafa' á höndum, að nú hafi hvor sinn rètt, og hèðan af ei skiljum slètt."

66. Marcilíus mælti þá: „Mikil er nýúng þessi, sannleik skýlaust skoða og sjá, skorar því til falls oss á."

67. „Virðir þengill verkin fróm, vunnin drengilega, hlýða vill engum hræsnin tóm, hann er genginn undir dóm."

68. „þeirra fjer sem forsjá brast, fèll í beran voða, sólklárt er þau eiga fast, af oss hèr að rannsakast."

69. Pratem nokkur niflúngs jarl, ná hans þokka vildi, vèla brokkur við þá gall: „Vilt' útlokka hèr anspjall?"

70. „Hver hefir sporað sprunda rán, spotts eða forakts meira? Hver svo þorað hlífðar án, herra vorum baka smán?"

71. „Kvenna lökust baugs þá bil, bófann mök við hafði, hrein er sökin, hana' eg skil, hver sem rökin væru til."

72. „Kvalir bráðum — sè mitt svar — síst nóg háðuglegar, eru þeim báðum auðvaldar, ef vèr gáðum skyldunnar."

73. „En salinn í, hvar settum þing, sek ef

þýin kæmu, skjöldúng tíginn skèr óríng, skapraun ný og svívirðing."

74. flestir gjörðu fast að róm, fleins því njörður mælti, innan börðust hausar hljóm, hèðan kjörðu slíkan dóm.

75. Sumir það brýndu: bik hver í, bæði týndu lífi; að fjötrum píndust flegin, því, fleirum sýndust kjörráð ný.

76. Eðallundar yfirskin, ekkèrt bundust viður, loks ei fundu kvalakyn, er kalla mundu' ei allt of lin.

77. Nú ei Marcilíus lèt, lengi svarsins vænta, röksemd varsöm flúði' ei fet, fólsku partsins riptun hèt.

78. Segir hann: „Vitrast sök mèr tóm, sjer eg og lit á henni, af mèr slitið gèt þó gróm, glópur sit eg engan dóm.

79. „Klögun tóma' er ei fær ans, upp á dóm að heija. æru gróm er lýðs og lands, um líf eða sóma nokkurs manns."

80. „Fæ eg ei þrætu þessa stytt, þvert nè fæti hopað, utan sætið ef hèr mitt, eptirlæt og gèf það kvitt."

81. Jarl rèð gègna: „Blygðast brátt, bernsku vegna þinnar, þyrmt vilt, hegna þeim sem átt, en þengils egna reiði dátt."

82. Nokkrir sögðu fylkis fjör, feigðar brögð um

spenna; aðrir lögðu söm til svör, sumir þögðu, bitu' á vör.

83. Vísir svarar: „Verður bezt, vitnast fara mætti, senn, hver hara saurgar verst, sæmd eða spara stundar mest.“

84. „Grunnt mun standa gátan brýn, gætir landa frægur, svo kaldt andi' að meiníng mín, mistreystandi rètti sín.“

85. „Út sem þannig þó allt sjer, þegar hann oss skyldi, rekk og svanna sækja hèr, sjálfur banna, því er ver!“

86. „það sjá allir þíngsins við, þurfti varla', ef átti, drengskap galla' að dára sið, og dóminum halla loks á snið.“

87. „Stöðugt geð til ykkar er, enginn sjeð nú fái, rángt hvort eða rètt þau skèr, rykti meðan af þeim fer.“

88. „Hef eg ei stælt um hal og snót, hara kælt svo fái, eins lítt mælt þeim bann og bót, blekkíng vælt fær ykkur ljót.“

89, „Hver fær rètt með rökum þekkt, rannsókn þètt hvort vildi, þýngja' eða lètta þeirra sekt, það er slètt ei skiljanlegt.“

90 „Engin tök þó, eg svo þaug, órannsökuð dæmi, þó hafi rök, ei þengill laug, þeirra sök er ekkèrt spaup.“

91. „Traust mun út mèr niflúng nú, niðurlút-

ur vísa, og ykkur múta', en er þó sú, ykkar grútar-blandin trú."

92. Þögn á jarl og þíngheim slètt, þegar falla mundi, fá þeir varla varast blett, vísir spjallar: „Gjörum rètt!"

93. „Hversu fleira hèr af spinnst, höfum vèr meir af gaman, gott er að heyra hvað þeim vinnst, og hvort ei seyra með þeim finnst."

94. „Fínt, en tvíræðt finnum vèr, frekt þó í hèr liggja, Marcilíus minn! af þèr, mæta nýúng full oss er."

95. „Mèr var það þó mjög samkvæmt, — mildíng kvað og brosti — er óprófað hef' aldrei dæmt, eða það á nokkrum sæmt."

96. „Það eitt styður þrek mitt hèr, þar eg miður öllu, eiri við, að vansi ber, verði' á yður, heldur enn mèr."

97. Byrgða' í múr — sem buðlúng tèr — Blanzeflúr menn sækja. Lítið stúrin hún kom hèr, hlekkjum úr þó leyst ei er.

98. Starir þjóð sem dauf á drós, döglíng móðugt sagði: „Leið nú, fljóð! svo hreppi hrós, hjartað góða þitt í ljós."

99. „Meya skárst oss þóktir þú, þeirra' eg ástum sæmda: Hvað gott sástu hèr í nú? Hvar fyrir brástu við oss trú?"

100. Guðvefs tjalda gègndi hrund, gæddum

valdi: „Hara ljúft og aldrei fór á fund, fyrr enn kalda þessa stund.

101. „Rètt er að minnast, ráðahag, ræsir inn með gánga, lèzt eg vinna láns með plag, lífið ef ynnist þann á dag.“

102. „En lágt í skugga lundin þver, lèði þá huggun eina, til þess ugglaust týndist fjer, turns af glugga' að steypa mèr.“

103. „Þvílíkt brallar geiglaust gèð, gramsson snjall af Spáni, ef hefði' ei fjallað mig hèr með, mundi það allareiðu skèð.“

104. „Ekkèrt skaðað hilmis hag, hefur því maður þessi, utan hvað nú háttalag, hans vann það eg lifi' í dag.“

105. Æsku sögu þeirra þá, þöllin ögurs mána, vann að lögun líka tjá, lesa' í bögum hèr því má.

106. „Sigri ræð eg, sátt skal gèð — svo lauk ræðu kvenndi — eins lítt hræðir andlát sjeð, okkur bæði', ef svo gat skèð.“

107. Fólskan kiknar flestum hjá, fyrir blikna sumir, gremju stiknar gilfi þá, glöggt er vikna margan sá.

108. „Refla skorð kvað skjöldúng, við, skiptið ei orðum fleirum; þekktan vorðinn niflúngs nið, njótar korða! sækið þið.“

109. „Ei má framar einsamalt, íllt í ham þeim búa, beri þeim saman um það allt, oss má gaman verða kaldt.“

110. Sá ei hræðist helið þar, hèr fyrir skjæðast mengi, ljóna fæðir leiddur var; líns í slæðum hlekki bar.

111. Svip hans frekt ei sást á stúr, „Seg ótregt — kvað hann — hví þú blekktir Blanzeflúr? er bjarga sektum vill þèr úr!!!“

112. Hinn ei sefur, svar óskakkt sendir: „Ef þer mynnduð, þetta krefur ekkèrt akt, yður það hef' eg fyrri sagt.“

113. „Þá er spurn — „kvað sjóli — sú, svars ej þurfn má líða, þessi: Hvernig hefir þú, hèr í turninn komist nú?“

114. „Yfir er ský, hvort segðum satt, sjálfi eða lýgjum þetta.“ — Mækja knýir mál svo batt — Marcilíus gegndi hraðt:

115. „Hjarta móðugt sómir sèr, seg fram, góður drengur! kónglegt blóð fyrst í þèr.“ Ansaði lóðins funa grèr:

116. „Gjald nam veiða vaktarann, vann sá eið í blindu, hens með seið að halda hann, hræddi' eg bleyði-kránga þann.“

117. „Maura-þý er maður sá — Marcilíus gegndi — fyrir því kann eg hèr á, ekkèrt lýgimót að sjá.“

118. „Hèr unnusta hefir þín, hleypt fram gusti maurnar, vífsins lustu vörm og brýn, vorar hlustir svörin fín.“

119. „Ykkar sögu því af þèr, þarf öll drög að

heyra, þegar lögnð eins hún er, ykkar högum breytum vèr.“

120. Stýrir fleins hèr stansar síst, strax tíl hreins að taka, sögn hans eins í öllu snýst, eðalsteins og rós fèkk lýst.

121. þíngheim viður þar mjög brá, þó ei miður hara. „Hlýðið sniðið hjal mitt á“ — hilmis niður enn rèð tjá:

122. „Nú er bannað meira mèr, málsveg þann að laga, þetta kann ei heyrast hèr, hreint ósannað gjörvalt er.“

123. „Vissu bera þurfa þeir, þó sem hèr um dæma, hvar að gèra hentar meir, en helztir eru vegir tveir.“

124. „Annar sá: eg sendi' á Spán, sönnur fá þar ríkar, kosta þá för ógéðs án, einkis þrái styrk nè lán.“

125. „Menn til kveði lofðúng lands, leiðar með þeim sendi, er þar hvað skèður sjá til sanns, en sè jeg á meðan fángi hans.“

126. „Hinn er að reyna hlíf og dör, hver af sveinum tiggja, sem vill eina köld með kjör, kjósa' að beina slíka för.“

127. Spyrja báðir harar hann, hvað af ráða mundi, velja' ef tjáða kosti kann. Kèmpan bráða, svar til fann:

128. „Voða seldur vopnin blá, vil eg allt held-

ur reyna, mistar veldi flý ei frá, fyrst, meðan veld þeim sjálfur á."

129. „Slík skal önnur hafa hver, hjör vèr spönnum móti, fyrst þá sönnuð sökin er, svik öll bönnuð hötum vèr."

130. „En engan hlífa reynum rig, rætt nema kíf það vinni, frelsi, líf og frama stig, fyrir víf og sjálfan mig."

131. „Líka held eg minnkun mèr, mikla selda' af hara, skuli' ei gèldíngs garmsins fjer, geymt, ófelldur meðan eg er."

132. „Dugskort þá er daufíngjans, dauðs-straff á að leggja, við mèr sjá var hvorki hans, hönd eða slá við þreki manns."

133. Marcilíus mælti hátt: „Mildíng ný-veitt þetta, að kappdeild í með hetju hátt, hefir svo tíginn dreng við átt.".

134. „Nú víst mundi dögling dæmt, dreng og sprundið hafa, en það fundið ílla ræmt, ykkar lund og vild samkvæmt."

135. „Þjóðin mat við mildíng, að, meydóm glata svanna, eitt hafi hatur áformað, en aldrei gat mèr skilist það."

136. „Megn eru svik að selja fljóð, sem þær mikilvægu, ástir kvikan efla móð, svo ei við hika líf nè blóð."

137. Hilmir játti: „Hef' eg til spor, — herma

knátti fremur — bani það mátti verða vor, vílið átti nóg til þor."

138. „Prófað sakar eðlið er, eptir maklegleikum, hún svo nakin heimtum vèr, á hendur takist dæmd af þèr."

139. „Hvergi þetta þèr nú skauzt, þinni stètt svo nægðir, drótt svo rèttar dafni traust, dæm þú nett og fylgislaust."

140. „Það skal haldast þetta sinn, þó munt aldrei síðan, slíks til valdur, Vinur minn! verði nú galdur dómur þinn."

141. Yfirvegan vóx í blóm, varð ótreg, svo gjörði, öldin þegar að hèr róm, ýmilegan, misjafnt fróm.

142. Allir finna' að ástum kvillt, auðs var svinnust gèfni, harmbólgin í tryggðum tryllt, tíusinnum verri' enn spillt.

143. En við hræra' og þjarka' í því, þeim kom nær ei saman, æ hvort væri frumást frí, og forrètt næri sálum í.

144. Hvað samkvæmið minna' og meir, meinfíng ræmir þessa, hana þó sæma sjólar þeir, sækja' og dæma skyldu tveir.

145. Marcilíus hvass í haus, höfðar því svo dóminn: „Gramsson fái af fjötrum laus, fái' einvígið sem hann kaus."

146 „Bíði svo þannig bana stífs, buðlúng kann

að líka, og sóma fann, á svæði kífs, sigrist hann og náist lífs."

147. „En hlýðir undir hirðlögin, er hari mundi' ei brjála, kvik og bundin, bert hvað finn, brenna sprund og gèldínginn."

148. „Sveigir brands ef sigri ná, sjest í dansi fleina, taka kransa mörk hann má, og maður hans er auli sá."

149. „Lofðúng stafur laufa kann, líka án vafa krefja, fjárhlut af er færði' á sann, að ferðin hafi kostað hann."

150. „Því hans sóma þyrmdi' ei par, þau í dróma' að hneppa, áður enn gróm það að gáð var, eigindóm hvort tók hann þar."

151. „Læt eg af völdum sveiptur sátt, sæti' eg gjöldum nokkrum, mæti' eg köldum þjósti þrátt, þrætum göldum hneigi smátt."

152. „Dómurinn — ríkur ræsir kvað — röðli síkja fegri, hæfir víki' hvergi' úr stað; en hversu líkar Flóres það."

153. „Hvert eg elli bíð eða ber, bana svellar undir, dör hvar gèllur — drengur tèr — dómurinn fèll að óskum mèr."

154. Hari sem skjótast skèrði tal, skikkun fljóta gefur: „Leysið snót og horskann hal, hreysti njóta drengur skal."

155. Hressa sprund og hal í bráð, hilmir stunda

lætur, en þenkti' hann mundi þrjóta dáð, þeim svo grunda bana-ráð.

156. Flagða maka, Flóres er, fyrsta blak ei stæði, lysti hrakinn laufa grèr, láta taka' og færa sèr.

157, Hjálm-göfugur vísir var, vel kunnugur mengi, hverjum dugur hlýtti þar, hlífar smugu benvargar.

158. Flóres lætur færa sèr, fjórar nætur þaðan, hertý mæt, en hirð sem ber, hefir gætur fleins á ver.

159. Sögðum reifast sörla ham, síðan veitir fleina, kvernbíts hreifinn klótið nam, kom í leyfi fyrir gram.

160. Týin gljá að sóma-sið, sýndi' og tjáir hara: „Mál er að sjá þann mækja klið, mig hèr á að þreyta við."

161. Lofðúng segir leikur sá, lítt nú dreginn mundi, hjörfa sveigir horfir á, hnugginn ei, en litum brá.

162. Flóres gekk, en fylkir þann, fyrir sig rekk lèt kalla, er lítt eður ekki lemstraðan, leggja' í blekki meinti hann.

163. Týaði harðan hal og bað, hreysti' ei sparða láta; leiks ákvarðan hvöss með hrað, hljómbær varð um allan stað.

164. Skögulr víruð skrúðin góð, skatna dýra

huldu, hjörfa týrar hvössum móð, heinum fýra þundar glóð.

165. Hinn svo bæði' og buðlúngs son, bráðum æða' á gota, líkt og hræðist lóðins kvon, lèk á þræði Babýlon.

166. Meðan upp þýtur múgurinn, messu ríta hlýða, fýsti nýta sveit um sinn, sèr þeir flýta' á leikvöllinn.

167. þá um svæði saman bar, sem þá æða' um skýin, loga bræður þegar þar, þrumur glæða' og eldíngar.

168. Hjörfa lundar herða' á mátt, hvorigur mundi bogna, stengur sundur stukku' í smátt, starblinds tundur þrifu bráðt.

169. Önnur verður atreið þá, ei sem gèrðum hlífi, drifu sverðin beitt og blá, brynjum herðum gneista frá.

170. Sjónum manna sýndist bert, sig hver granna finndi, dauðsærðan við höggið hvert, hvorigur annan gat þó snert.

171. Sjer því enginn seggja blóð, sverð þó dengi' á hlifum, furðar þengil, felmtrar þjóð, Flóres lengi hversu stóð.

172. Fast ómæðinn Flóres þá, flein úr æði reiddi, hetjan skjæða hann þó sá, höggstað næði um leið sèr á.

173. Funi sviðars fast að reið, fleins vill hvið-

an harðna, týnast grið á tjörgu meið, til mund-
riða skjöldinn sneið.

174. Vigurinn herðti viðbeinið, vinstra skèrðti líka, stálið bert á hina hlið, hlaut að snerta gilfa nið.

175. Eggin skjæða skífði með, skildinum klæðið handar, lítt má hræða tjónið tèð, trauðt því blæða drengnum rèð.

176. Hörund klára hríngs á njót, hjörinn blár ei snerti, Flóres knár við randa-rót, rekknum sára hjó á mót.

177. Helft af vinstra handleggnum, höggið kynstra sneiddi, og blakkinn stinnsta' í bógunum, blað nam þynnst í vellinum.

178. Hinn treystandi brands á blað, blóðgur handarvana, kom standandi kífs á hlað, kvernbít þandi Flóres að.

179. Líkt og þjálfa leiksveinar, lèzt valskjálf á báðum, þunds í bjálfa skeinu skar, og skjöldinn hálfa' er eptir var.

180. Vígs á stöðli kèmpan kná, kappanum öðlíngs móti, stökk úr söðli steindum þá, starblinds röðli' í loptið brá.

181. Við hrökk djarft sá voða kveið, vigurinn snart hann ekki, en Flóres harðt með Filvíng sneið, fjórðapartinn hjálms um leið.

182. Hreppti sár á höfuðið, hirðir tára lofnar

gramsson knár ei gugnar við, þó gjörðist hárið blóðroðið.

183. Ylvíng stríðum upp hann brá, arm og síðu hina, lestir skíða leysti frá, laufa hríðin endt var þá.

184. Blanzeflúr þá bláföl stóð, brands meðan skúr á dundi, fansar úr því gleðin góð, glansar frúr í kinnum blóð.

185. Gugnir spjarar Gramsson þá, gèkk að hara og mælti: „Hvort fullsvarið heita má, hilmir var nú unnt að sjá."

186. Sveit á hlustar, siklíng tèr: „Sjálegustu kvenna, tak unnustu þína' að þèr, þú dróst bust úr nösum mèr."

187. „Lukku' og hreysti lagna þèr, lengst hvert freistað höfum, drafnar gneista djarfur ver! deyfa treystast engum ber."

188. Loptsal fríðan lofðúng þar, lèt honum síðan vísa, seims með hlíð og síst hèr var, að sakna prýði kónglegrar.

189. Fleini þræddan fljóð sem kann, Flóres græddi' af sári; tíðt við ræddust tiggi' og hann, trúnaður glæddist smámsaman,

190. Óhugblauðum þegni þar, þá ótrauður hari, Fleins úr nauðum frægð sem bar, fèð svo bauð, er til, dæmt var.

191. Öðlíng lætur ans í tè, aptur gætir dáða: „Kèmpu mæta hèr sem hnè, hæfði' að bæta meiru fè."

192. „Honum afbar eg hárs við regn, hafði' ei þar til góða, lángt svo var það mèr um megn, mætan spara' á lífi þegn."

193. Ans gaf móðugt sjóli senn: „Seljum blóð hans ekki, betri hróður býzt oss, enn, bera' í sjóði vegna menn."

194. „Funa síkja vit þú ver, viltu slíkan bæta, máttu líka halda hèr, hilmis ríki' og þjóna mèr."

195. „Enganveginn fjarstæðt finn, — Flóres segir bara — þar að hneigja huga minn, hèti' eg eigi trónborinn."

196. „Hvað vankætir fylkir framt, fullu bæta viljum, með veglæti tryggðatamt, en tignar gæta vorrar samt."

197. Gilfi tjáir: „Gjört ei for-, gèfins má neitt heita, rèttur þá ert vinur vor, vil eg þú sjáir hèr til spor."

198. „Bæn til reiðu því skal þèr, þróttkur meiður stála! er mestan heiður metur hèr, minnst en sneið af vorum skèr."

199. „Vil eg ei þann vansa minn, við því nei að mæla — kappinn segir hèr til hinn — hún er þegi vandkjörinn."

200. „Vini mína hefjið hèr, heiðri' og rínar skari, af þeim skíni heiður hver, og hylli' er sýna vilduð mèr."

201. þetta gjörði beint sem bað, buðlúng, njörð-

ur vigra, jarls til kjörði strax í stað, stúlkna vörðinn eptir það.

202. Döglíngs niðar dáðir fann, Daríus miður varla, aptur liðugt öðlast vann, embættið við kastalann.

203. Hirðirinn trúi' er tiggja nið, tryggð hans búa náði, hèr með nú og hresstist við, hlaut sá brúar-embættið.

204. Blossa marar bör um sá, báðum var þeim aukið, vímar skar og virðíng há, vissi' ei hari fyrr um þá.

205. Buðlúng stór varð bragníng trúr, bæði fór eins viður, eptir tóra skin lèt skúr, skenkti' Elóris Blanzeflúr.

206. Hreysti stærstan hal sá vo, hans og kærstur svanni, mæti glæst hjá mildíng svo, mánuði nærstu sátu tvo.

207. Skreyttan knör við skæra haf, skjöldúng ör lèt búa, og hafla svörum hreifan af, hers með skörum Flóres gaf.

208. Risnu tína þóktist þar, þessir sínir vinir, um lóðins dýnu linda hvar, leigðu rínar glóðum far.

209. Drós með snotra Flóres framt, fara mun slotið rýma, á bláröst vota' og burðaramt, báru nota ljón um skammt.

210. Bör hárs skara skráðum þá, skörugast

bar að fylgja, kjörráð fara kváðum smá, knör andvara hrjáðum á.

---

## 9. Ríma.

Slèttubönd en meiri.

Heimreisa, heimkoma, krýníng, brúðkaup, barneign og samlífi Flóresar og Blanzeflúr. Reisa til Parísar og ríkis-von þar; kristna þau um sinn ríki sitt á Spáni; setjast að ríki á Frakklandi; stýra því að áttræðis aldri; taka klaustra líf; deya bæði samt við níræðis aldur

---

1. Góma traðar ekrum af, ýmu vana muggu, óma mjaðar hætt á haf, hrek eg anars duggu.

2. Klúðrar bundin sagna-söfn, seggur þegi kátur, lúðrar undir digra dröfn, duglaus regins bátur.

3. Hvar hann dragnar flónskt mèr ferst, frek sem undur klaga, þar hann þagnar bjóð að berst, bezt mun sundur draga.

4. Nýtir kalla boði bert, beslu storma rífa, flýti galla heimska herðt, háttu' að forma dýra.

5. Ljóðgyllíngar beri' ei blett, bjóði tálið nægra, þjóðsnillíngar ljóði lètt, lagi málið þægra.

6. Þessir sömu máskè mest, máls þó dáðum glata, hvessir ömun, fatast flest, fræðis þjáðum rata.

7. Skorðar hjalið stefja starf, stökum hlynna biður. orða valið þreyta þarf, þulur minna viður.

8. Hætt' að slíkum einn sem á, óðsmiðs hræra penna, ætti' að líkum mest sem má, málið læra nenna.

9. Má alhuga lyst fá lènt, ljóðstarf mýki næmi, þá skal duga mærðar mennt, málsins ríkidæmi.

10. Mætti stærsta skeið um skammt, skortinn þrjóta ráða, hætti glæsta semja samt, sálar njóta dáða.

11. Forðum kváðu drengir dýrt, dylst við þegi lýður, orðum tjáðu skreytt og skírt, sköp sín eigi síður.

12. Hèr órækist gáfa grönn, gætni mætti stýra, mèr þó flækist túnga' um tönn, tíðt við hætti dýra.

13. Vilda'g lèða miklu meir, mærðar stálið ynni, skylda'g kveða þá sem þeir, þegar málið kynni.

14. Egils listar sál með sveit, seint að nýu tórnar, dregils mistar við eg veit, Virgilíum fjórnar.

15. Vildu dveljast mál þau mèr, mun og skoðan dofna, skyldu teljast allir er, oss kinnroðann stofna.

16. Kvæða smíðin öll þá er, orðin dáraskapur, ræðu prýðin hæfir hver, hèti klára flapur.

17. Lengi vega það sem þraut, þegn má svinnan hræða, engi trega skyldi skraut, skèmmdur innan klæða.

18. Dáð Norðmanna sakna sín, sjálf oss lætur meira, tjáð orð sanna margir mín, mega' ei þrætur heyra.

19. Minnið skreyta fyrndar framt, frètta safna blöðum, sinnið þreyta grætt og gramt, gömlum nafna röðum.

20. Klaga síðan: aldrei er, arfinn föður-maki, baga stríðan þann ei þver, þjóð svo stöðugt hraki.

21. Þetta draga hyggjur heim, hèr er mest um þulið, rètt að haga þánka þeim, þó mun flestum dulið.

22. Þarf storð-granna kynna kjör, kröm svo

þyldum styrða, arf Norðmanna gætum gjör, geymt ef vildum hirða.

23. Vildum nýta líf og lán, listir og ráðin gæða, skyldum líta þrotna þján, þessum áður skjæða.

24. Látum deyfðan eðlis-óð, apturfara kènna, gátum leifðan þánka þjóð, þann við spara penna.

25, Stýlum halla frekt menn fá, flest á skrumi byggja, tvílum varla minna má, muna' enn sumir hyggja.

26. þjóðar-andann vanta varð, við það stendur líka, slóðar handan grófst vorn garð, geirum endurflíka.

27. Opt hagstörfum þykir því, þènt með kröptum öðrum, lopt draggjörvum umbreytt í, álíkt sköptum fjöðrum.

28. þó vèr værum Norðmenn nú, neitt ei fastar stæðum, óherfærum sæld oss sú, seint afkastar mæðum.

29. Sjá við trúum klökkri kurt, kèmpu dáðum hinir, snjásvið búum eitur-urt, amar báðum vinir.

30. Hèr mót skoðum enn þá oss, — ei það ský fær hulið — vèr fóttroðum heldur hnoss, hinum því nær dulið.

31. Sneiðir lýði dáð og dyggð, dofin trúarleysa, heiður flýði, lifnar lygð, löstu skúar hneisa.

32. Styður lakar þrekið þá, þels er lestu hreysi, niður hrakar drambið dá, dáð og festuleysi.

33. Öldin kjarnann helzta hèr, hefir af galla kyni, fjöldinn gjarnan sára sjer, sannleiks alla vini.

34. Meðan lifa þeir hjá þjóð, þá skal særa dróma, eða skrifa-greind þá góð, girnist næra sóma.

35. Snauður tíðast lágt hann laut, lausn fær nárinn slíka, dauður síðast hrósið hlaut, hann og dárinn líka.

36. Sjáðu' að búin þrautin þúng, þjóðrækt lerka

gètur, gáðu' að trúin óþekkt úng, allt nam verka betur.

37. Hendíng bögu fleiprar flest, flytur skrítið ræmi, endíng sögu beinum bezt, birtir lítið dæmi.

38. Anda hyrju gègn ei gèkk, gnoðar austra stafni, landa styrju fíl þá fèkk, Flóres hraustra jafni.

39. Þakkar sjóla gladdur gjör, gnægtir þægðar-hóta, hlakkar kjóla buðlúng bör, bað til frægðar njóta.

40. Síðan undir frægstri fylgd, fylkis orðlof tóku, blíðan mundi vörm að vild, vagni storð af óku.

41. Drifinn kvíðann fundu frá, fyrr er hjarta særði, hifin-blíðan andar á, alla parta hrærði.

42. Náði leiðin unnum að, ei dvelst förin kappa, áði reiðin strax í stað, stigu' á knörinn happa.

43. Blæelgs þandi voldugt voð, varins prúða skrauti, hræsvelgs andi geysar gnoð, gríms úr brúðar skauti.

44. Ríkur storðin gèddu grá, gjálfur-trylltum höndum, strýkur borðin hefríngs há, hvein í gylltum böndum.

45. Græðir knarar skèrðti' ei skraut, skeið svo dafnar fleyi, æði marar lítt er laut, leitaði hafnar eigi.

46. Greiddi kára fylgdin frjáls, ferðir beinast ýta, freyddi bára' um essið áls, unz menn seinast líta.

47. Skúmar löður kólgu kverk, kaldt í ránar sogi, rúmar fjöður stjórnar sterk, stafn á Spánar vogi.

48. Krafði baga glyggjar gólf, gat þó knörinn sparað, hafði daga tæpa tólf, tignar-förin varað.

49. Var ný-dauður hilmir hjalls, hèldt við róstum megnum, bar því hauður form til falls, flestum ljóst um þegnum.

50. Heyrði kappi fregn þar frá, fyrr enn kènndur yrði, eirði happi, sig um sá, svo það endurspyrði.

51. Ferðir kynna, ráð og raun, ránar eisu bjóður, gèrði tvinna lèt á laun, lendan reisu bróður.

52. Fríðan vitja þegn um þöll, þorns lèt, vaska drengi, síðan flytja heim í höll, hans og kaska mengi.

53. Stansar kvíði, frægð er föl, fagna mæður báðar, glansar prýði, bugast böl, bálast glæður dáðar.

54. Engi kallar strit og stúr, stórt nè taflið geira, fengi varla skin og skúr, skipzt með afli meira.

55. Krýna lætur sendir seims, sig á ríkisdegi, dvína þrætur, hyggju heims, hugar sýkist eigi.

56. Tróninn hyllir öld hann á, afls svo dáðin njóti, krónan gyllir blíða brá, brosa láðin móti.

57. Sýndur mætur þingheim þar, þylja ferða-

sögu, krýndur lætur hilmir, hvar, hef' eg af gërða bögu.

58. Þúngur skóli fárs var ferð, framast þóktu hafa, úngur sjóli', og vunnið verð, vörin gróttu safa.

59. Dáðin krafði leiðt í ljós, lotníng hèr af fylgdi, ráðið hafði döglíng drós, drottníng vera skyldi.

60. Engi hirðti mæla mót, mundu vara dóma, mengi virðti snilldar snót, snotrum hara sóma.

61. Þíngið lætur bráðt í breytt, brúðkaups gleði dýra, lýngið mætur góins greiðt, greipum lèði fíra.

62. Blanzeflúr má drótt að dást, djásna þaktri smíði, vansi frúr á svip ei sást, samt í naktri prýði.

63. Ljósin skína hefríngs, hjá, hilmi prúða situr, hrósi fína göfguð gná, gullins skrúða vitur.

64. Lundu gagnar hvessíng hver, hófið stóð í mánuð, fundu bragnar æran er, öðlíng blóðfrí lánuð.

65. Síðinn rèði laga lands — lofðúng risna styður — griðin lèði, stakk í stans, styrjöld kristna viður.

66. Mettað vöru lèt óljótt, lofðúng flaustur vanda, þetta kjöri finndi fljótt, fylkir austurlanda.

67. Valda dáðir þokka þjáls, þau er milli fóru, tjalda báðir essin áls, auðs með fylli stóru.

68. Gefast vinir, þykkja þver, þannig hjónin ríktu, sefast hinir áður, er uppá tróninn sníktu.

69 Sýktist lyndið hvorugs höll, hót ei stækka flekki, líktist yndið þeirri þöll, þroskast, hækkar ekki.

70. Tíðir vetra fjögra fá, fríðra sona þriggja, prýði setra þengils þá, þorðu vona tryggja.

71. Fansar praktin hjónin hýr, hreiðrað lifir mæti, glansar maktin döglíngs dýr, dafnar yfirlæti.

72. En hvar gleði sálir sjá, síst og grandið ugga, senn þar skèði líða lá, ljós varð blandið skugga.

73. Spil ágætis þeirra þá, þoldi' ei fár hið minnsta, til fákætis beðju brá, buðlúngs árið hinnsta.

74. Grandar kífið, tórði' hún tíðt, tár með glæst í hvörmum, andar vífið þraungvast þýðt, þengils læst í örmum.

75. Svanninn grætur, ástum í, eldar brunnu hvarma, þanninn lætur skruggu ský, skèrptan sunnu varma.

76. Þetta mátti síður sjá, sjálfum þengill bana, frètta knátti gullhlaðs gná, grætt hvað fengi hana.

77. Sprundið vafði sjóli' að sèr, sitt ei spara lysti, fundið hafði böl hún ber, baugþöll hara kyssti.

78. Yndið dýra bilun bar, brugðið þókti lífi, lyndið hýra þvíngast þar, þraungvar ótti vífi.

79. Hara leiðir eintal á, og með harma bragði, svara greiðir þetta þá, þètt að arma lagði.

80. „Tálgar kvíðinn mjög svo mig, megn að

dylja þrýtur, nálgar tíðin sorgar sig, sú oss skilja hlýtur.“

81. „Mèr óðulið heyr nú hvað, heillir skapti vorar, þèr þó hulið á oss að, efldum krapti skorar.“

82. „Vengis þegar öðlíngs, á Asíu straungu valdi, engis vegar sínum sá, sjón úr þraungu haldi.“

83. „Vann eg ráði heilagt heit, hinna kristnu skara, þann veg dáðir vunnar veit, veg og risnu hara.“

84. „Fárið þètta baugs má bil, blíðu rírast játa, árið þetta tók eg til, trúuð skírast láta.“

85. „Þann veg meinti' að lífsins leið, löguð væri fegri, sanna' eg hreint að nálgast neyð, nú óbærilegri.“

86. „Breytið dylur þel ei það, þú við frjósir ama, heitið skilur okkur að, utan kjósir sama.“

87. „Þèr því eigi gegna gár, greindin vífs hvað sannar, hèr í vegi stórfeldt stár, staða lífs það bannar.“

88. Hari blíður tjáði: „Trú, tign eða nokkur vilji, svara bíður það ei þú, þenkir okkur skilji.“

89. „Á sèr, færðu' að litlu lagt, lengst hvað reynt þú hefur, hjá þèr nær það ei fá akt, eða hreint nú sefur.“

90. „Fannstu gegna hug þeim hátt? háður lífi brýnu, mannstu vegna þín eg þrátt, þyrmdi lífi mínu?“

91. „Skyldum eigi þora þá, þinna ráða njóta, vildum þegi grant að gá, gróða dáða róta.“

92. „Stundir lángar, þar til þrýt, þó mèr nauðugt væri, undir gánga hreint eg hlýt, heillum auðugt særi.“

93. „Sannað þekki mál svo meint, meiddum vopnum nauða, annað ekki bjó oss beint, braut úr opnum dauða.“

94. „Að í gèðið líf og lyst, lènti spilið búna, hvað því rèði, fæ eg fyrst, frètt og skilið núna.“

95. „Hirðti nokkur satt fá sagt, sá athuga vildi, virðtist okkur mannleg makt, minnst að duga skyldi.“

96. „Ættum snjallast hefja heit, heila landið kristna, mættum varla gjörast geit, glæfi standið risna.“

97. Gleði tárum drottníng dýr, döglíngs barminn stökkti, gèði kláru felmtur flýr, fagnaður harminn slökkti.

98. Blandar lundu furða frek, fjörs við kènndu sporin, andar fundu þrifna þrek, þau sem endurborin.

99. Æði lengi sig um sjá, saman lögðum dáðum, bæði gengi fullt að fá, framan sögðum ráðum.

100. Svanninn vildi tiggi trúr, til Parísar skundi, þanninn skyldi stansa stúr, styrkur vís þar mundi.

101. Hugði fara konúngs kvon, kvazt í vændum fínum, ugði þar að virðta von, víst með frændum sínum.

102. Dugði snilld, þó tiggja töld, tvísýn förin þækti, hugði skyldi' óuppnæm öld, að þótt hjörinn sækti.

103. Bjó úr landi hraustan her, hari' á skeiðum tíu, óstúrandi sagða sèr, sveit á heiðum glýu,

104. Þá ráðstafað höfðu hag, hlýðt snjallræði vönu, á gráðtrafa strengja stag, stigu bæði trönu.

105. Rein baugþvita stælt rèð stá, stillir svinna herða, ein þau vita, trauðla tjá, tilgáng sinna ferða.

106. Ýngvum geima skilar skars, skjótt um hagann ránar, kríngum sveyma marir mars, meginskagann Spánar.

107. Djarft kyl-vagna hafrok hörð, herðan reiðann teygðu, þar til bragnar Fetla-fjörð, fleygibreiðan eygðu.

108. Hrammar úða blaka borð, blærinn þaut í reiða, gamma suða straums um storð, stóðið hlaut því skeiða.

109. Velta drafnir lýra lóns, ljónin refla stundu, elt á hafnir Frakka fróns, flíkur hefla mundu.

110. Fleyin varin, gnast ei gráð, geims að öldum hlóu, megin skarinn lagði' á láð, lofðar tjöldum slóu.

111. Yðu leiðum fylki frá, fylgdu gotnar teitir, biðu skeiðum eptir á, einar flotna sveitir.

112. Segja lætur fróni frið, fregn af mengi hafði, eia-mætur virgul við, vart fyrr lengi tafði.

113. Frakka grundar vísir var, vífsins föð-

urbróðir, stakka þundar skjóma skar, skenkti löðurs glóðir.

114. Dugði vissa svanna sú, síst er rengda vildi, hugði missa not ei nú, niflúngs tengða skyldi.

115. Rèð harðleiknum geirs við gráð, gram allt þetta rita, með jarteiknum skjöldúng skráð, skjótt fær rètt það vita.

116. Gætir þjóða sveiptur seim, sjóla snjallan gleður, lætur bjóða honum heim, herinn allan meður.

117. Dáðum þrifnar, buðu bót, beggja skarar kætast, báðum lifnar ræktar- rót, röskvir harar mætast.

118. Stillir franskur óskar að, öðlíng kristinn væri, hyllir spanskur þengill það, þar til lystin bæri.

119. Allt er reyndu, hvernig hver, harms við sundrast kliður, snjallt hèr greindu, þegi þver, þjóðin undrast viður.

120. Gleður lífið þengill þar, þrennar átta vikur, meður vífið bjó sem bar, buðlúng máttar kvikur.

121. Bæði þáðu skírnar-skraut, skjöldúng mundi líka, fræði náðu, lið allt laut, lögbót undir slíka.

122. Ný þá kæti' að sinnu svam, sálar mettust fæði, í hásæti glæst með gram, göfguð settust bæði.

123. Lengi þarfa kèmpu kann, kalla þjóðin hara, fengið arfa hafði' ei hann, hirðti' ei sjóðinn spara.

124. Bætur efna ráð óríng, röskur sjóli hugði, lætur stefna þjóðar þíng; þular-tólið dugði.

125. Hèr var ráðið mál það mest, mengi griðin skèptir, er þar láðið Flóres fest, fylkir liðinn eptir.

126. Verður finna hari hèr, hverju giptist vífi, gerður tvinna lið til lèr, loks hann sviptist kífi.

127. Minnur dygði herskátt horn, halda' af Spánar ríki, innu skyggði fengs þar forn, fjóns áþjánar sýki.

128. Kappinn prúði gat vel greint, gafst þar honum kærra, happi trúði svoddan seint, sýn og vonum stærra.

129. Ráðið beima hari hár, hafði særið lúka, láðið heima kristna knár, kóngsvald æríð brúka.

130. Ella vildi hvergi hann, hafa þaðan farið, vella hildi því síst þann, þókti' í skaðann varið.

131. Auðugt viður Frakka frón, festist hugur beggja, nauðugt styður heim þó hjón, hjartans dugur leggja.

132. Helgi-þjóna Flóres fjöld, fèkk af löndum hirða, elgi lóna hers áhöld, hjördrótt bröndum girða.

133. Skallann votan hrysti hler, hreifan eldi ránar, allan flotann blærinn ber, beint að veldi Spánar.

134. Flestu mengi brún í brá, bifs sá átti vagna, mestu gengi sveitin sá, sjóli mátti fagna.

135. Kristniboðið frama fast, fylkir snarpur þorði, slisni hroðið brjóst ei brast, bærðist skarpur korði.

136. Laungum átti hárs í hríð, heiðnir miður prísa, aungvum mátti lánast lýð, lofðúng viður rísa.

137. Víðast knátti þrótt úr þeim, þunds hyr rauður skaka, síðast mátti kristni-keim, kúgað hauður taka.

138. Dárum víðar þúng var þrá, þengils reiði smakka. Árum síðar tólf að tjá, tiggi deyði Frakka.

139. Bæði hari fèkk og fljóð, fögnuð ángurblandinn, flæði-mari lètu' af lóð, linnti strángur vandinn.

140. Frónið spanska þengill þá, þróttkum örfum lènti, tróninn franska efldur á, öðlíngs störfum þènti.

141. Snjallir fengu harðt um hríð, hárs til veðra finna, allir gengu til með tíð, trúar feðra sinna.

142. Dóttur eina hjónin hèr, höfðu' af spönsku fróni, þróttur seinast lið sem lèr, lifa' á frönskum tróni.

143. Þáði blóma, hreppti hrós, hinna beztu granna, náði sóma drembin drós, drengjum flestu banna.

144. Lýsti sölum björt sem brún, beðju glens

í mána, nísti kvölum hetjur hún, hèt Cedenzíána.

145. Mátti tíðast sigra sú. Sigurð þögla viður, átti síðast bauga brú, brögð og sköglar hviður.

146. Flóres lengi' á buðlúngs bekk, býsnum happa stýrði, stór hlès vengis forráð fèkk, flesta kappa rírði.

147. Fjórnin prísar döglíng dátt, dável lýður skildi, stjórnin vísar hetju-hátt, hvergi síður mildi.

148. Skær háttgæði franskt um frón, frekt vill hraustur grèru, nær áttræðu heiðurs hjón, hófu klaustur-veru.

149. Dóu bæði níræð nær, nóg mót gröndum styður, hlóu gæði fólgin fjær, frómum öndum viður.

150. Glöddust högum, lífsins leið, luku frama nægri, söddust dögum, greftran greið, gaft á sama dægri.

---

151. Tjáist kjörin sè' um síð, sagnar þrotin, bræður! Dáins knör í hlè um hríð, hafnar brotinn ræður.

152. Blóma rúin ljóð svo legg, liðið snjalla kènni. Óma trú' eg daufa drekk, „datera" varla nenni.

153. Kætist bræður yggs við öl! Auðnu hjólin dansi! Rætist mæður burt og böl! Blíðusólin glansi!

154. Heiti þess, er gildið gaf, ganz af skatna krúsum: Leytið hressir ólund af, þá Ymir vatnar músum.

155. Jölnis vara send' eg sjá, sviptan snilli farfa, Mjölnis hara þvitaþá, þrastastillis arfa.

156. Hönum býð eg utan ef, óvisst löguð fundin, vönum smíði-stuðla stef, styrfin, bjöguð, undin.

157. Varist feilin hirðið hvart, herki bragmærfngar, sparist heilinn, virðið vart, verkið lagfærfngar.

---

## Leiðréttingar:

Bls. 1., línu 3. að neðan: fjórgu, les: fjörgu. Bls. 17. línu 31. minn heppinu, les: munnheppinn; bls. 19. línu 4. sál er, les: sálar; bls. 48. línu 6. þekka, les: þekkja; bls. 107. línu 21. þeasu, les: þessu; bls. 135. línu 17. bjóð, les: bjöð.

# RÍMUR

af

# Freyvald og kaupmanni Jens.

Ortar af

**Níelsi Jónssyni**
skálda.

---

## I. Ríma.

1. Lítt þó stræti fræða finni, fær til óðar glaums, vökva læt jeg lóðins minni liljur glóða-straums.

2. Niptir kunna nefna svinnar, í námi hróðrar fángs: austra blunna lítinn linna, lagaðan vel til gángs.

3. Ferju mjóa blindviðs bagla, býst jeg treysta' á framt; hnoða ró á neinum nagla, nenni' eg ekki samt.

4. Hálast er í hættu skugga, hefir engin fjör, sóns um ver þó sirpu-mugga, suðra spreyngi knör.

5. Litlri sóun lízt mèr spái, lóvars brostið fley; braknings þó jeg ferðir fái, farmur er kostbær ei.

6. Þvi að óma fjarðar fjöru, flyt jeg þetta sinn, leir og tóma lètta vöru, lendíng ef þar finn.

7. Nú þó bjóðist nafn af flóni, og nokkuð meira last, nóg er hún góð í gleymsku-lóni, grafin að fortærast.

8. Mun ei ráð, að bríkum banda, betri gjöri' á skil, hjals í láði hirðir branda, hvað nú stendur til.

9. Kýs eg skýri kveðlíngs greyið, kvaks um

vegu flutt, æfintýr úr dönsku dregið, dáskrítið og stutt.

10. Margfleigaða mærð þó týgi, má ei sjá þar við, sjálft hvort það er satt eða lýgi; svona' er upphafið:

11. Hamborgara hróður nefni, hèt sá Maðson Jens, kaupmann var; en kveðlíngs efni, kèmur af njóti mens.

12 Fíngra hèlu frekt lèt dafna, frosti búksorgar; optast vel gekk auð að safna, en illa giptíngar.

13. Vildi' honum fátt af víffakyni, veita trú nè mund; skjaldan átti' hann skipta-vini, skèmur en klukkustund!!

14. Fór svo lengi fram hans æfi, fljóðin hrínga reyr, þýddust engin, þótt hann gæfi ‚þrjá skildínga' og meir!

15. Aura teygir af dró gaman, aumkvaði' mengið þraut; hryggjar-greyið sífeldt saman, silfurspengja hlaut.

16. Yndi seinkar, segg á tranti, sáust ullhvít hár; honum þá einhver gamall ganti, gipti mey til fjár.

17. Nauðug fyllti foldin veiga, föðurs hlýðnis lög; karlinn vildi hún aldrei eiga, óviðfeldinn mjög.

18. Hann þó ofur-mikils metur, mens hið únga láð, nær sem stofu-tíkar tetur, trautt þó kæmi fjáð.

19. Lítið bærði' hinn lyndis kyrri, lina kær-

leiks-ör, sem aldrei lærði' að elska fyrri, enn ellin svæfði fjör.

20. Ángurs kaunin svanna svella, sveif á únglíngs brjóst; skarst ei raunin skár, enn þella, skrúða, fyrr við bjóst.

21. Svannans þegi sorgar-efni, sá þá fólkið allt; deildi' hann ei á dúka-gefni, en dillaði' í laumi kaldt.

22. Allar stundir grunaði ganta, — gott er tíðt af-sver — að hver einn mundi hyggja' að planta, horn í skalla sèr.

23. Heimlæðan með hrakinn vánga, hèr í tók ei próf; en vaktaði svanna sem einn fánga, og sigtaði meir enn þjóf.

24. Dramb, sem krafði' að höfðíngs-háttum, hann í glæstum sal, með sèr haldi' úr ýmsum áttum, ýngismanna-val.

25. Þessu spili, þægðar-anna, þánki fylgdi með; hann ætlaði til að augað svanna, innra skildi gèð.

26. Fleygir brands það forsjár-efni, feil sló lengi víst, en meðferð hans, hvað mens á gèfni, merkti, vissi' hann síst.

27. Seyma hildi særíng geldur, svoddan yndis bann, lifa vildi' ei hún, auk heldur, hyggði' að þýðast mann.

28. Vífið faldi glens og gaman, gremju' og örvæntíng; úr henni kvaldist öll smásaman, ástartilfinníng.

29. Afkvæmið varð ekkèrt heldur, — yndi fjærri stár —; þannig liðu', er þægð ei veldur, þrjú eða fjögur ár.

30. Hvað þar bragna hefir verið, hèr ei til er greint; en þó sagnar- um gat - kverið, á þeim tíma seint.

31. Karlskèpnan, er hríngþöll hrelldri, hót sín geðjast lèt; ýngismann fèkk öðrum heldri, einn sem Freyvald hèt.

32. Korða grennir, kurteis, glaður, kænn, en fáskiptinn, var góðmenni, vel skapaður, vitur, fjölbreytinn.

33. Skorti ei nenníng skrifa og reikna, skarpan bauga við; höndin penna-listum leikna, lappaði karlskarnið.

34. Reikníng stundar raunar tossi — riðaði maura þjón — mæddur undir mammons krossi, missa tók af sjón.

35. Hirðir bifs- svo hagaði -funa, heima' í ranni til, að kamers skrifs og kokkstofuna, króaði sundur þil.

36. Elldri var hann, enn tvæ-vetur, átti karlskarnið, glugga þar, á gat svo betur, gægzt í kokkhúsið.

37. Freyvald þar sat einatt inni — iðið færði kíf —, þá karlinn var í krambúðinni, en kokkstofunni víf.

38. Starði ríka rósin bauga, á rjóðan pennameið; seggur líka sá hornauga, svanna hvernig leið.

39. Blóma-lit með bragði tvistu, brá því stundum hann; ángurbitið fljóð í fyrstu, freklega aumkva vann.

40. Fann og slóðin funa síkja — fögur innan skamms —, að henni góðu vildi víkja, viður loga damms.

41. Yfir lágt með leyndum trega, lèt því svanninn þar. Frá er sagt, að fljóðið, þegar, fámennt eitt sinn var.

42. Talaði við hann glugga gègnum, gánga þorði' ei inn; því auðgrund siðug, ótta megnum, æ var sárbitin.

43. Ei var henni hýrt í geði; hún þá bendíng við, blekugan penna bað sèr lèði, og blaðkorn dálítið.

44. Hún fèkk það og hripa gáði, hèr á fáein orð, rètta' í stað svo rekk að náði, roðnuð baugaskorð.

45. Leit ósekur frítt við fljóði, fram þegar drukkstund leið, hræríng vekur hals í blóði, hjal á þessa leið:

46. „Varla bót þó vinna sprakka, virða megi neinn, kurteis hót og þægðir þakka, þèr, hinn úngi sveinn!"

47. „Brúkaðu talda breytni snara, bið eg af alúð þig, fremur aldrei við þau vara, vildir gjöra mig."

48. „þenkja mættir þú hvað veldur, þèr ef væri hollt, slíks eg ætti' að óska heldur, ekki nær svo stolt."

49. „En mèr er ei, mín þó gjaldir, gleði, gunstin hússbóndans, og lukka þín er víst í veði; veiztu' ei gèðslag hans?!!"

50. Skarpsinnaður skjótt rèð kanna, skrifið og taldi mas; reit hann blað, og sendi svanna, sem hún þannig las:

51. „Aldrei vil jeg hug minn hræði, heimslegt slíkt aðskast, þar hjá skil eg þín heilræði, og þakka skyldugast."

52. „Oki stinnu varla veld eg, verk þá forðast íll; karlfuglin má hèr um held eg, hugsa það það vill."

53. Lítill partur lukku minnar, liggur hans í mund; og ránkar spart til ræðu þinnar, rúm þegar líður stund."

54. „Honum ef bistist heiptar-voma, held eg verða kann, lengur síst að kveðja', enn koma, krámbúðina og hann."

55. Lítið spaug þó auðgrund ali, andsvör snögglesin, skildu þau að skráðu hjali, skjótt í þetta sinn.

56. þaðan af lengi treindist tíðin, til svo bar ei neitt; forðaðist drenginn falda-blíðin, fèkk þó örðugt veitt.

57. Samveran nam lið til leggja — líkt fyrir

hal og drós — smámsaman í brjóstum beggja, blíðu - kvikna - ljós.

58. Kvenndis fara kjör að banni, klökknar storkið blóð, ei hvað var að unna manni, áður vissi fljóð.

59. Fyrir umsátrum færis bíður, fleygir bauga' og snót; varla gátu, voguðu síður, við að talast hót.

60. Viðhèldt tári víf og drengur — varmt því höfðu blóð; — leið svo árið eða lengur, allt við sama stóð.

61. Nokkuð beygja bæði tekur, bið og löngun tjáð, ást og þreyíng eptir rekur, einhver hugsa ráð.

62. Þegar í ranni þess ei gáði, þjóna kaupmanns neinn, lista svanni laumast náði, leynt í trjágarð einn.

63. Bör ei fleina fylgdi svanna, ferðin þókti hætt; hitt vill reyna hrínga nanna, hvort þess yrði gætt.

64. Báls þó hlès þar sif ei sofni, sæng og kodda lèt, linditrès hjá lífgum stofni, lagaði þar sem flet.

65. Gèkk að ranni, trauðt við tafði, tróðan baugs með hast, undrast vann, að enginn hafði, um það forvitnast.

66. Tæk að hátta tíð kom rètta, tvinna - seinna - bil; karlinn bráðt með blíðu slètta, bograði sængur til.

67. Fljóð af klæðum fara nennir, fyrir var spar-

lak breiðt; lögðust bæði, kvenndi kènnir, karl ei vissi neitt.

68. Rotin gæði mærðar mátta, mèr hjá spretta finn; þrotin kvæði hèr eg hátta, hlýt í þetta sinn.

---

## 2. Ríma.

1. Opt eru staddir lýðir lítt það lengi sannast, reyndur hefir margs að minnast, munu þess víða dæmi finnast.

2. Var eg að stýra kuggi kjalars kröptum bognum; náði lúinn nesi þagnar, náða til þó skammra gagnar.

3. Aptur má jeg stauta strax á starblinds viði, og taka nú, þó armstyrk eyði, ofan í kaupið róðrar-leiði.

4. Lítt þó skiljist, lætur reyndin loks mig trúa, að austra knör um ódreyrs flóa, á sè verra' að sigla' enn róa.

5. En — til hvers er að tylla upp voð á trönu suðra? heldur byr í eina' enn aðra, átt, ei næst til ferða hraðra.

6. Hentara væri, að hafa sèð með heilli rænu, endirinn í upphafinu, en yfir klaga þessu' og hinu.

7. Sè eg, að hef' eg samt í þenna suðra nökkva, framar reynt að hnoða' enn hnykkja, heiti' eg ekki maki gikkja.

8. Tel eg ei upp á til ábata takist ferðin; gegnum sundur boruð borðin, blaut og skèmmd er varan orðin.

9. Það er, að tjá með öðrum orðum efnið ljóða: í stað fyrir dægra-stytting blíða, storknar þeim, er á vill hlýða.

10. Vænist eg þess lítt til lygdar lesara greindum, fyrir þó komi mærðar myndum, mun hann dást að illtíðindum.

11. Þegar hart og íllt af öðrum einn má líða, svo verður að leita verri ráða, villtur af stigum eigin dáða.

12. Sóma-ráð og samin á móti samvizkunni, lukkast vel og lof ávinna, lángtum stærra' enn dygðug svinna.

13. En billegt þikja brögnum má þeim brag minn skoða, þó væru kjör hins vondhjartaða, að vinna mest til eigin skaða.

14. Auk heldur þá ekkèrt gjörist utan þetta, að drottnun verður hann að hætta, og hinn fær sína líðun bætta.

15. Finnst mèr satt, þá fullvel skoðast fólks athafnir, ýmsir kraptar eru því gefnir; á ofríkinu kænskan hefnir.

16. Hvernin sem að tekst nú til, á tvíblinds rastir, þulins kuggi þunds í trausti, þagnar hryndi' eg fram úr nausti.

17. Dró eg lekan blindsviðs bát að boðnarsundi, þar háttuð voru karl og kvenndi, kraunk þó hyggja værð frá bendi.

18. Dirfsku slíkri vann að voga vífið teita, upp á ræðum ýmsum brjóta, en öfugt margt nam karli hrjóta.

19. Þar kom loksins, víf svo vanda vogar ræðu: „Er hann Freyvald ákvarðaður, eptirdags hèr vistar-maður?"

20. „Hvað er þèr að því?" — spyr karl —;

en þorns kvað eyri: „Rekkur hèðan rekinn væri, ráða mèr ef slíku bæri.“

21. Dreng þó hefði' hann afsagt innan á-setts tíma, þenkti gjörla þiljan seyma, það orð mundi ráða' hann heima.

22. Kvenndið vissi karls sèr eptir kjæk þeim hegða, gefni seims hvað grun á lagði, gafst og raunin full að bragði.

23. „Vanur“ — kvað hann — „var eg að ráða vistar-hjónum; graut eða svik úr gjörðum mínum, gjöri' eg trauðt að ráðum þínum.“

24. „Sèrðu hvað þèr sóma þykir — seims kvað spíra — sumum á þèr einlægari, ertu' ei stundum fastheldnari.“

25. Blindt er mèr að hann brúki neina breytni klækja“ — svaraði karl með kappið freka — „kann eg hann ei frá mèr reka.“

26. Kvenndið tèr: „Þó klókskaps-reglur kunnir raunar, gáfu hefir Freyvald fína, að fara' í kríngum gætni þína.“

27. Hermdi karl: „Með hans ofmenni hefi eg spilað, hann hefir lítil faung að fela, frá mèr mun hann engu stela.“

28. Hjalaði svanni: „Hans á breytni hót ei segist, ef hann stelur ei svo sjáist, eða þar til vitni náist.“

29. „Mun og skárst ei mundi' eg hèr um marg-

ar ræður; lifðu' og deyðu dyggð hans viður, dugir þèr það bezt og styður."

30. „En hvað þèr virðist verðt um mig það vissi' eg fyrri, og að þèr er kannskè kærri, krambúðin, því hún er stærri."

31. Þúngt í skapi vífi var og við hann tjáði: „Mætti' eg nota mitt frjálsræði, mundi' eg ykkur kveðja bæði.

32. Karl mót venju vífi að sèr veik og tjáði: „Hvað er í efni brundin klæða? Hvað á — segir hann — þessi ræða?"

33. „Bregzt mèr síst, að eitthvað er í efni með þig, segðu mèr það satt, eg bið þíg, sè hann á hugi lagztur við þig!"

34. „Sè þèr nokkuð sárt um þetta — svanni tjáði — lítið hèr um er í eiði, ósært þó að hjá mèr leiði."

35. „En bak við hann ef hefðir staðið heill með rænu, þegar hann stóð og húkti' á knènu, hèrna' út undir linditrènu."

36. „Þángað heim eg varð þess vís mèr víkja leyfði, eitthvað sýnst og heyrst þèr hefði, hèr um víst, er þánka krefði."

37. Fyrst við þetta kæla kom í karlinn nokkur, sagði: „Heyri' eg hann er gikkur. Hvernig skyldi þá með ykkur?"

38. Kvenndið tèr: „Eg klakklaust þaðan komst

án efa, en mátti þángað mèr honum lofa, meðan þèr fèlli bezt að sofa.“

39. „Hvernig gaztu — hjalaði karlinn — hagað þessu, svo hann fengi von þá vissa? Vorðinn er eg nú fyrst hissa!“

40. „Lèzt eg mundi laga „púns“ — kvað liljan klúta — að dyttir þú fyrir drykkinn heita, í djúpan svefn, er hægt að veita.“

41. „Nefndi' eg þetta nú, fyrst ekki nauztu værða. Kvenndi nú með kænsku þurði, karlinn trúði' og framar spurði:

42. „Hefirðu aldrei vör hans vilja vorðið áður?“ þuldi hún: „jú! en þèr til greiða, þenkti' eg gildra nú til veiða.“

43. Færi' á honum fèkkstu nú sem fyrst eg kènni; svo eg framar hèr að hlynni, hafðu ráð mín einusinni.“

44. „Klæztu' á næturklæðin mín, eg kann ráð leggja; síðan muntu' að sjálfur hyggja, sæng og koddi skal þar liggja.“

45. „Bezt mèr þækti bragð svo laga — baugs kvað eyri — þú í leyni færð þá færi, ef fyrr' enn hann þar kominn værir.“

46. Karlinn þýddist kvenndis ráð í kænskuþroti, og ætlaði strax að æða' á fætur, aptrað honum svanni lætur.

47. „Þú skalt bíða þriðjúng nætur, — þöll kvað

seyma — lengur en knappan klukkutíma, kúrðu' ei þar, því svöl er gríma."

48. „Ef hann kèmur, vit hans vilja' og vertu' í stilli; stúri' eg ei þó styrðt á falli, og stafnum með þú heilsir karli."

49. „Komi' hann ekki, hverf þú heim í hvílu þína; en haldtu' á sæng og hægindu, hèr það legg í framdyrinu."

50. „Svo eg geti sagt það hafi' eg sjálf innborið; hann mèr stofnað ómak ærið, og ónýtt sjálfur tækifærið."

51. „Fari svo sem trauðt eg trúi, — talaði svanni — tvíllaust þetta takast kynni, ef til er reynt í öðru sinni."

52. Karl afrèði sem nú sagði svanni laginn; órólegur um andardrögin, alltaf taldi klukkuslögin.

53. Stundin kom; hann flaug á fætur fljótt sem kunni; baugs lá eptir nakin nanna, í náttklæðin hann trózt af svanna.

54. Rogast út og áði lúin undir trènu; lá svo þar í lognfrostinu, lángri' á sæng og hægindinu.

55. Þreytti mikla þolinmæði, þar til síðast, líkamans tók ylur eyðast, og honum stórum fór að leiðast.

56. Enginn skyldi gefa gaum að gátum þeirra, sem ætla' að Frey vald ætti hlýrra, og ekkèrt máskè reyndi nýrra.

57. Heyrir karl, þá hann er kulda-hrjáður orð-

inn, liðugast þar sem laumast varð inn, læddist einhver hægt um garðinn.

58. Varð nú glaður við, því ráðið vænkast þókti, fann í engu fljóð sig blekkti. Freyvald hjá sèr standa þekkti.

59. Stundarkorn þar stóð og glápti stýrir korða: „Lúrir þú hèr, liljan borða! — loksins tók hann svo til orða. —

60. „Þú hefir hugsað helzt þig skyldi' ei híngað vanta; vildi þèr af veitast renta, ef vissir skeið til Amors mennta."

61. „Mikið afbragð máttu vera meðal flóna, alvöru fyrst ætlar mína, áleitni við kvennskömm þína."

62. „Mjög vel færi' ef margt af fljóðum menn svo ræktu. Kaupmann rèttast væri' eg vekti, valið kvenna svo hann þekkti."

63. „Helzt þar veit eg horskum maka höfðíngsmanna, fyrir þèr, dyrgjan dáða þunna! dugir lítils góðs að unna."

64. „Fyrir rèttum fimm missirum fór eg híngað; klæði gróf — mèr kaup er gengið — og krónur þrjár jeg hefi fengið."

65. „Jeg skal okkar fund víðfrægja fyrst þá morgnar, hèðan af þèr til heiðurs þurfnar, hafðu það fyrir tillögurnar!"

66. Þegar talað þetta hafði þollur hrínga, að

persónunni greiðt nam gánga, og greiddi högg á báða vánga.

67. Þagði karl; með þeim svo skyldi; þá heim fór hann, hraðaði sèr og hlýðinn var hann, hægindið og sæng inn bar hann.

68. Hef' eg ei tök á hèr að greina hversu svanni, vel sig breiddi' að vigra runni, og vermdi hann sem mjúkast kunni.

69. Fyrst um sinn, ei vildi vífið við hann spjalla; tíðinda spurði tróðan pella, tönnum þegar hann hætti' að skèlla.

70. Ofur feginn ylnaði fauskur inni þarna; minnkaði kuldi' og munnherkjurnar, maðurinn kènndi' ei blíðu þurðnar.

71. „Kom ei Freyvald?“ kvenndið spyr; en karl nam svara: „Þèr vil eg skil á þessu gèra, þángað víst nam drenginn bera.“

72. „Hèrum orð þín hafa mèr ræzt, heyrst og fundist, þó erindis-kornið annað reyndist, og augnamið hans fyrir þèr leyndist.

73. „Kænlegt bragð móti krók ofseinum kanntu bera.“ Hrundin spurði hvítíngs leira: „Hvað segirðu, af þessu meira?“

74. „Ekki gèt eg öfundað þig af atlotunum, þeim mèr sýndi þundur fleina. Þannig vífi karl nam greina.“

75. „Hef' eg stundum hlíðt á ræður hálft ó-

þægar; en aldrei skammir eins voldugar, yfir sem kvarta lítt þó dugar."

76. Freyvalds svo, þó fljóði mjög til furðu bregði, orðið hvert og atvik sagði, og nú framar það tillagði:

77. „Fullvissu af fyrirtekt hans fæ eg dregið, að einhver hefir að honum logið, og í hann síðan gremja flogið.

78. Viljað hefna vansa síns, en víst er eigi, ef eg honum ekkèrt þægi, uppá hverju loks hann slægi".

79. „Mig svo stansar — mælti víf — og má ei svara; haganlegra hygg þó vera, hèr í eitthvað fljótt að gèra."

80. Hann kann líka sjá þèr sann þó seinna láti, en þó fyr sèr annt um lèti, í mig veiða þessu neti.

81. Að þú lengur haldir hann eg hef' ei móti, meðan viltu verk hans nýta, virðir nú ei mèr til lýta.

82. Fullu launa fláttskap hans mèr fellur seint inn; en óttast hægt þó ýgldur gantinn, að mèr snúi' á þennan kantinn.

83. En upp hèðan annast svo vel um hans hagi, lítt að skaða mig hann megi, meir enn fyrir þig ei segi."

84. Mælti' hann: „Skyldu minnar part það minnstan segi' eg. Freyvald samt ei missa má eg. maka hans ei vissan á eg."

85. „En háskalaust eg hèðan af skal mèr hvergi telja, að ónýta þín orð og vilja, unz mig við þig hel má skilja.“

86. „Böl er mèr hvað orð mín opt þèr ángur veita; grillur mínar gleymdar láttu, gjörvallar þær vita máttu.“

87. Koss þar uppá karl nam gèfa klúta-nönnu; sætt og vært hjá seyma gunni, sofnaði með þau orð í munni.

88. Fljótt að morgni fleygir náði fíngra svella, Freyvald inn í krambúð kalla, kátbroslegur við hann spjallar:

89. „Allareiðu tæka tíð eg til þess kènni, að kaupið, sem þú átt hèr inni, afgreiðist af hendi minni.“

90. Formála með fagurgala frekan þuldi; renndi á staup og rekk út taldi, rokna summu' af heilu gjaldi.

91. Freyvald hans á höfðíngskap sig heilfurð-aði; blíðum þökkum býta náði, beygðist djúpt; en karl þá tjáði:

92. „Heppilega hrannarljósið hjá þèr brenni; en bón skal fylgja bendíng minni; breytni hef' eg grun á þinni.“

93. „Hèðan af tveggja handa járn eg held þig, vinur! lund ef mýkja lukkast þína, lát þess njóta konu mína.“

94. „Henni sök þó hafirðu gefið, helzt ofsanna,

mun eg fátt um mæla nenna. Margvíslegt er sinnið kvenna!“

95. „Ætlaði' eg að hún þèr hefði hlynnt sem skyldi; allt af mèr hún trú um taldi, til þín miðla þyrfti' eg gjaldi.“

96. Finnst mèr samt ei fella verð á frama þínum, að segja' ei ykkar samfund neinum, sver mèr það með eiði hreinum.“

97, „Tillátsemi“ — sagði baldur svofnis stræta — „oflítil má af mèr heita, yður um þessa bæn að neita.“

98. Um þær sakir ótöldum, en andakt reyrðum, fór nú karlinn faguryrðum, Freyvald öðrum þegi styrðum.

99. Vinskaps-nagla sagðan sem nú sverast þoldu, eiðs með fleinum ógna gildu, árèttuðu', og við það skildu.

100. Burt gekk karl og birtist aptur bráðar vonum; helztu menn úr heila bænum, heim þá leiddi' að ráðum vænum.

101. Arfleiðíng var uppsett þá og æztu mönnum, undir skráð og afhendt svanna, (ónýt sèr ei baugs var nanna!)

102. Fundi sleit, en frá þeim tíma fór allt betur, lèk við fíngur kaupmann kátur, karlinum Freyvald eptirlátur.

103. Ánægjan var allt af ný og úng með karli,

Fljóðs og hins var fátt í milli, fór þó allt með hægð og snilli.

104. Hann þó stundum hagaði svo, því hollt var sinni, í stríð við gefni fíngra fanna, að Freyvald yrði' á vegi svanna.

105. Æfinlega þetta þókti þorngrund miður; þóknaðist karli það sem áður, þegar hann var nú orðinn gáður.

106. Eptir þetta sex eða sjö ár svona liðu; kvaddi loksins karlinn hauður, kvenndi fèll til leifður auður.

107. Tilfellinn' að tjá af mèr ei tími leyfir; lesarinn ef gaum að gèfur, gizkar hvernig farið hefur.

108. Nafn þess aðar ljóða lèns hins lítil-tigna, af mun dregið ótta bragna. Er honum nú ei skást að þagna?

109. Mel eg að kolum kjalars súlu kjöl og fjalir; sel eg falað fálu kulið, fèlögum deilist málið þulið.

---

Kosta óinnbundnar 40 skildínga.